# LJÓÐMÆLI

EFTIR

KRISTJÁN JÓNSSON

ÚTGEFANDI:

BJÖRN B. JÓNSSON

MINNEOTA, MINN.

S. TH. WESTDAL

WASHINGTON, D. C.

1907

# FORMÁLI.

Kvæði Kristjáns Jónssonar hafa tvisvar sinnum verið gefin út í Reykjavík, en báðar útgáfurnar eru fyrir æði löngu gengnar út. All-mikil eftirspurn er nú eftir kvæðunum, og hefi eg fyrir þá sök ráðist í að gefa þau út. Þykist eg til þess hafa fullan rétt, og þarf eigi frekar frá því að skýra.

Mjög mörg kvæði, sem verið hafa í hinum eldri útgáfum, eru ekki í þessari útgáfu, og birtast hér að eins valin ljóð. Óþarft þykir mér að halda á lofti sumu því, er áður var prentað, og mundi höfundurinn sjálfur að líkindum aldrei hafa látið prenta það. Mörgum tækifæris kvæðum, erfiljóðum og minnum hefi eg og gengið fram hjá, því þótt sum þeirra séu all-vel gerð, þá eru þau svo bundin við sérstök tækifæri og vissa menn, að þau hafa ekkert alment gildi. Að eins tvö kvæði, sem ekki voru í hinum eldri útgáfum, birtast í þessari bók. Það eru kvæðin "Kveldljóð" og "Herðabreið." Hið fyrrnefnda kvæði hefi eg fengið frá séra Jóni Bjarnasyni í Winnipeg, en hið síðara frá hr. Jósef Davíðssyni að Baldur, Manitoba.

Eg vona að eg ekki hafi unnið íslenzkum bókmentum óþarft verk með útgáfu ljóðmæla þessara.

Útg.

# EFNIS-YFIRLIT.

---

## II.—ÞÝÐINGAR.

# I.—FRUMSAMIN LJÓÐ.

---

## SKÁLDIÐ.

Heill sé þér, andi
himinborni,
ofan stiginn
frá æðra heimi,
aldrei þér förlast
um aldurdaga,
æfi þín gjörvöll
er eilíft vor.

Hvaðan ertu stiginn
í hjarta dauðlegt,
ástblíði andi
og óþrotlegi?
Hvernig er þér leyft
ljóð að knýja
máttarvana
manns af tungu?

Þú á almættis
öflgum vængjum

háum svífur ofar
himinsölum;
þú alheims-geim
ómælanda
yfir stígur
á augna-bliki.

Þú af blástjörnu
björtum geislum
himinljómandi
höll þér reisir;
skrúði þinn er morguns
munar-roði
í ósorgar-blæju
ofinn bláa.

Alt, sem er fagurt,
það er eiga þín:
munarleiftrandi
meyjar-auga,
söngur náttgala,
svana rómur
og gullstrengjaðrar
gígju eymur.

Allur alheimur
er eiga þín,
þú takmarkast ei
af tíð né rúmi,
líður þú að drottins
dýrðar-stóli

og helgar svelgur
himinveigar.

Líður þú að Niflheims
nætur-sölum
og eld eilífan
öslar djarfur;
þaðan aftur
að uppheims-sölum
ótt þú stígur
í einu feti.

Eilífur ertu
og í Edens-garði
lékst í laufskugga
lífsins eikar;
svafst þú á Evu
svana-brjóstum,
er Adam fyrst
hana augum leiddi.

Bygðir þú turna
Babýlónar;
með Lýkúrg og Sólon
lög þú settir;
með Leónídasi
í Lauga-skarði
ættjarðar-ástar
þú yptir hjörfi.

Þú fórst að Indus
undurstraumi

í austurveg
með Alexandri;
þú með Rómbyggjum
réðst í víking
og sveiflaðir bitrum
með Caesar hjörfi.

Hélzt þú að hrundum
helgirústum
með kross-leiðangurs
kappa-þjóðum;
riddurum fornum
þú fylgi veittir
og ljónhjörtuðum
lofðung Engla.

Með Kólumbi fórstu
yfir kólgu vesturs;
endur þú bjóst
í Óðins sölum;
þú teygaðir mjöð
af Mímis brunni
og tárfagurrar Freyju
titraðir í faðmi.

Alt, sem áður
þú eiga knáttir,
enn þú átt
og því aldrei týnir;
tímans hverfandi
hjól æ stendur

hreyfingarlaust
í hendi þinni.

Víðförli andi,
óstöðvanlegi,
hvar er þá aðal-
aðsetur þitt?
Er það í helgum
himinsölum,
þars eilíf drotnar
unaðsæla?

Nei, þú býr
þar, sem böl og harmur
og sárar saknaðar,
sorgir búa;
skjálfandi hjarta
það er heimili þitt;
andar-tök þess
eru angurstunur.

Gegn um grátský
og gremju-tár
liggur leið þín
að ljósi himins;
gegn um hrygðarkvein
og harma-stunur
heyrir þú ástblíða
engilróma.

Alt þú átt
og ekki neitt;

fæðis án og fata
fer þú um heiminn;
treystir þú drotni,
treystir þú þér sjálfum;
örvæntir þú
og ert áhyggjulaus.

Einn ert þú af englum
uppheims-sala
hniginn af háum
himinstöðvum.
Engill útlægi,
útlegðar-stað
í dauðlegu hjarta
þér drottinn bjó.

Sveimar þú þaðan
til sælli heima
og um veraldir
víða reikar.
En sektar-ár þín
eru senn á enda;
heim til himins
muntu hverfa bráðum.

---

## VONIN.

*H*vað er líf og *h*vað er heimur?
Klæddur þoku drauma-geimur,

þar sem ótal leiftur ljóma,
er lifna, deyja' og blika' um skeið.
Hvað er frægð og hreysti manna?
Hvað er snilli spekinganna?
Það er af vindi vakin alda,
er verður til og deyr um leið.

Alt, sem lifir, lifa girnir;
lífið heli móti spyrnir.
Þegar lífsins löngun hverfur,
lífið er eðli sínu fjær.
Hetjan, sem vill heldur deyja,
en harðstjórans und vald sig beygja,
lífi sínu' ei lifað getur
lengur, en meðan sigrað fær.

Þungskilið er lögmál lífsins;
um leiðir huldar gleði' og kífsins
flytjum vér, sem fyrir straumi
fljóti gnoð um sollið gráð.
Sama alda alt fram hrekur;
ýmsar stefnur lífið tekur;
sérhvað eðli sínu hlýðir
sínum föstu lögum háð.

Ó, hve mjög um æfi-brautir
ýmsar lífið særa þrautir,
og í brjóstum ekka þrungnum
óteljandi hjörtu slá.
Ótal hníga angurs-tárin,
ótal svíða hjarta-sárin.

Ó, hvað þá svo aumum manni
ást til lífsins vekja má?

Það er vonin blíða' og bjarta
bezt er friðar órótt hjarta,
himinsæla' í harma-geimi,
helgast lífsins andar-tak,
heimsins ljúfust leiðar-stjarna,
ljós á vegum foldar-barna,
böli mæddan hressir huga
og harmi snýr í gleði-kvak.

Þú af drauma-himni háum
hjúpuð ljóma fagurgljáum
o'n á lífsins ægi fellir
undurbjartan geisla-staf;
að þínum ljóma ávalt allar
öldur lífs, sem rísa' og falla,
sækja fram í sjálfan dauða
seiddar þínu brosi af.

Áfram geysar alda-straumur;
alt er lífið myrkur draumur
sælublöndnum sollinn hörmum,
sjónhverfing og leiðsla hál.
Alt, sem hefir upphaf, þrýtur;
alt, sem lifir, deyja hlýtur;
vonin lífs er verndar-engill,
von, sem þó er að eins tál.

## HEIMKOMA.

Stígur myrkur á grund, hnígur miðs-vetrar sól,
grimmleg myrkrún á fönnunum hlær,
og í dynjandi hríð kveður draugaleg ljóð
rómi dimmum hinn ískaldi blær.

Yfir eyðilegt hjarn, þar sem engin vex rós,
gengur einmana halur um kvöld;
langt er heimkynni að, því að leiðin er löng,
dynur hríðin svo bitur og köld.

Ekkert vísar á leið, engin varða er nær,
alt er voðalegt ferðlúnum svein,
myrkri fyrir og hríð eigi faðms-breidd hann sér
og hjá frostinu vægð er ei nein.

En hann glottir við tönn og um gaddfrosið láð
augum gætnum hann lítur með ró,
breytir stefnunni lítt, hefir storminn á hlið
veður sterklega helkaldan snjó.

Heima lágum í bæ sitja ljóstýru við
faðir ljúfur og móðirin blíð,
vænta sonarins heim; en um svellfreðið þak
dynur salar hin grimmúðga hríð.

Móðir hnípin við rokk situr hugdöpur mjög,
augum hvarflar að glugganum þrátt,
segir: "Veðrið er hart, svo að varla má neinn
rata veginn um koldimma nátt."

Svarar faðirinn stilt: "Það er fjúksamt og kalt,
en þó fært þeim, sem karlmenni er;
þegar ungur eg var, hef eg annað eins reynt,
þá í óveðrum skemti eg mér."

Ungur svanni þeim hjá fagur situr og hreinn,
þungt og sorglega varpar hún önd,
veit að nú er hann einn úti' í nákaldri hríð—
stýrir nálinni skjálfandi hönd.

Fast er stígið á grund, hurð er sterklega knúð,
komin stríðinu hetjan er frá,
hefir sigraða þraut; kætast sorgþjökuð brjóst,
ljómar sólfögur gleðin á brá.

Gleðjast ellimóð hjón, faðma ástríkan son,
vermir unnustan frostkalda mund.
Aldrei siklingur neinn hefir sinni í höll
lifað sælli né fegurri stund.

---

## DETTIFOSS.

Þar sem aldrei á grjóti gráu
gullin mót sólu hlæja blóm
og ginnhvítar öldur gljúfrin háu
grimmefldum nísta heljar-klóm,
kveður þú, foss, minn forni vinur,
með fimbulrómi sí og æ;
undir þér bergið sterka stynur
sem strá í nætur-kulda-blæ.

Kveður þú ljóð um hali horfna
og hetju-líf á fyrri öld;
talar þú margt um frelsið forna
og frægðarinnar dapra kvöld.
Ljósgeislar á þér leika skærir
liðnir frá sól í gegn um ský;
regnboga-litir titra tærir
tröllauknum bárum þínum í.

Ægilegur og undrafríður
ertú, hið mikla fossa-val;
aflramur jafnt þú áfram líður
í eyðilegum hamra-sal.
Tímarnir breytast; bölið sára
það brjóstið slær, er fyrr var glatt;
en alt af söm þín ógnar-bára
ofan um veltist gljúfrið bratt.

Stormarnir hvína, stráin sölna,
stórvaxin alda rís á sæ,
á rjóðum kinnum rósir fölna
í regin-köldum harma-blæ,
brennandi tár um bleikan vanga
boga, því hjartað vantar ró—
en alt af jafnt um æfi langa
aldan í þínu djúpi hló.

Blunda vil eg í bárum þínum
þá bleikur loksins hníg eg nár,
þar sem að enginn yfir mínu
önduðu líki fellir tár;

og þegar sveit með sorgar-hljóði
syngur döpur of ann'ra ná,
í jörmun-efldum íturmóði
yfir mér skaltu hlæja þá.

---

## HERÐABREIÐ.

Þar sem að áður dauði dimmur
dynjandi svam um logagráð,
og jökulkuldi jörmungrimmur
járnsterkum greipum kreistir láð,
þú stendur, hetjan herðabreiða,
háværum langt frá sölum glaums;
um brjóst þitt hamarbrynjað freyða
beljandi öldur tíðar straums.

Þar hefir þú um ár og aldur
ógnsterkum fótum sparnað frón.
Þér fær ei grandað gustur kaldur
né grimmlegt él þér unnið tjón.
Þér finst um lítt þó falinn myrkva
farbauta hamist niður stór,
og hræðist ei þó hjálminn styrkva
með hamri þungum ljósti Þór.

Ár hafa komið, aldir liðið
eilífðar fram í víðan geim,
og lífs þú yfir sjónarsviðið
séð hefir æ á tíma þeim.

Þú sást þá fornu frægðardaga,
er frelsis-röðull skein þig á,
og dýran hetju-dreyra laga
um dali blómga sástu þá.

Þú hefir litið hrausta drengi
með hjálm og brugðin flein í mund.
Þú sást hið forna fjalla-vengi
um frægðardagsins morgunstund.
Þú hefir litið dimma daga
og dauðans ógn og þungan harm,
því þú ert eldri sjálf en Saga—
og Saga' er fóstruð við þinn barm.

Hverfandi alt á hveli líður
um heimsins angurþrungna slóð,
breytinga geisar stormur stríður
og stundin hverfur myrk og góð;
hlátur og bitur harmalæti
þú heyrir lífs í fjarrum glaum;
þú huggar rótt í hrygð og kæti
sem hetja liðin séð í draum.

Og oft um daga bernsku bjarta
bera við himin þig eg sá,
og unun vakti ungu hjarta
sú undursjón svo gild og há.
Þegar eg sá í þoku dróma
að þín var hulin tignar-mynd,
þá hugði eg til dimmra dóma
dísir í þínum gengi tind.

Og nær þitt enni hreina' og heiða
hjúpaði morgunroða ský
og hamrakonan herðabreiða
sig huldi geislatjöldum í,
þegar að sólar blíður bjarmi
blikaði skært á hvítum snjá,
þá var sem ofar heimsins harmi
himneska dýrð eg þættist sjá.

Þú stendur enn á stöðvum fjalla
þar stríður andar kulda-blær,
þín hamra-brynja hallast varla
og hjálmur þinn ei ryðgað fær.
Þó straumur tímans streymi kaldur,
er staðist eigi getur neinn,
þú stendur kyr um ár og aldur
alda liðinna bautasteinn.

---

## EKKI ER ALT SEM SÝNIST.

Krýndur situr öðlingur konungs-stóli á,
knéfallandi þegna lítur hann sér hjá;
vilji hans er almáttugur, orð hans laga-boð;
aldrei beygir sorgin slíkt hamingju-goð.

Enginn skilur hjartað! Nær hauður byrgði húm,
hátta sá eg gylfa í konunglegt rúm;
með hrygðar-svip hann mændi auða sali á,
af augum hnigu társtraumar. Hver skildi þá?

Í aurasafni miklu eg auðkýfing sá,
á æfi-leið hans hamingjan gulli nam strá·
sorgin þeim gullmúr ei unnið fær á,
er umhvervis sig hleður mæringur sá.

Enginn skilur hjartað, því auðugan hal
áðan sá eg reika í gullskrýddum sal;
féllu tár af augum á fépyngjur títt;
fölvan svip og harmþrunginn hver getur þýtt?

Í björtum æsku-blóma blíða mey eg leit,
brosti rós á vöngum, en sálin var svo heit,
yngismanna vonandi augu störðu' á snót;
aldrei nagar sorgin svo blómlega rót.

Enginn skilur hjartað, því unga sá eg mey
um engið græna reika í hægum sumar-þey
gleðisnauða, einmana, grátna með brá;
geislar stóðu' af tárunum. Hver skildi þá?

Blíða' og unga móður í barna-hóp eg sá
blíða, ást og von skinu augunum frá;
móður-hjartans ástar-magn engin bugar neyð,
aldrei verður nornin svo fögru blómi reið.

Enginn skilur hjartað, því yngsta soninn sinn
hún áðan lagði' í vöggu með rósfagra kinn;
hún andvarpaði sáran og Alvald hjálpar bað,
af augum sá eg tár hníga. Hver skildi það?

Glaður situr unglingur góðvinum hjá,
glóir vín á skálum, en yndi á brá;

aldrei sigrar harmurinn vináttu og vín,
vonarsól og gleði þar ómyrkvuð skín.

Enginn skilur hjartað, því höfðinu hann
halla döpru áðan að legu-bekknum vann,
og svipinn hans hinn bjarta sorgar huldi ský,
sem sólu byrgði hreggflóki. Hver skildi' í því?

Alls staðar er harmur og alls staðar er böl,
alls staðar er söknuður, tára-föll og kvöl;
skilið eigi hjartað vor skammsýni fær,
né skygnst inn í það hulda, sem nokkuð er fjær.

Veröldin er leikvöllur heimsku og harms,
er hrygðar-stunur bergmálar syrgjandi barms.
*Lífið alt er blóðrás og logandi und,*
*sem læknast ekki fyrr en á aldurtila-stund.*

---

## GRAFARA-SÖNGUR.

Gröfum og gröfum;
glamra rekur
á brotnum kistum
og bleikum kögglum,
gægjast hálffúnar
höfuðskeljar
moldar fram
úr myrku djúpi.

Hér er hið rétta
ríki jafnaðar;
sofa hér jafnvært
í svartnætti grafar
konungurinn
við kotungs síðu,
ölmusumaður
og auðkýfingur.

Hér er hinn snotri
snyrtimaður
ítrum mitt
í æsku-blóma
öldungs örvasa
og ellihnigins
við hlið laginn—
þeir hvílast jafnt.

Hér sofa féndur,
er í heiftar-móði
bárust fyrr á
bana-spjótum;
frosin er nú heift
úr fúnu brjósti;
blunda þeir vært
sem bræður væru.

Hér er konungur
í kistu laginn,
purpura-skikkju
skrýddur dýrri;

hún er nú fúin,
og höfuðskel sú,
er kórónu bar,
ei kennist frá hinum.

Nú er drambsvipur
af drottins enni
runninn burt
og reiði-skuggar;
jafnveikt er það
fyrir járnkarli mínum
sem hins þróttminsta
af þegnum hans.

Er-a stillis hönd
styrkvari nú,
þótt veifði gullnum
veldis-sprota,
en vesalings,
er veikri mundu
göngu-staf
greipa náði.

Glittir hér í hvíta—
í grafar-húmi—
höfuðskel
hýrrar meyjar,
þeirrar, er áður
um aldurdaga
fljóða allra
fegurst þótti.

Þar sem hrafnsvartir
hrundu lokkar
um munarrjóðan
meyjar-vanga
sjást nú bein ein
bleik og skinin,
yndi fjær
og ástar-þokka.

Þar sem bláfögur
brostu augu,
er kveyktu ást
í ungum brjóstum,
eru nú holar
augna-tóftir
og dimmgrimt
dauða-myrkur.

Dauðlegur maður,
þú ert dust jarðar,
lítið því yfir þér
láta skaltu;
vit, að brátt munu
bein þín hringla
köld og stirð
á kistu-fjölum.

Gröfum og gröfum,
götu ryðjum
helstirðum líkum
að hinsta beði.

Gröfum og gröfum,
glamrar í beinum—
hingað og hingað,
en hvergi lengra!

---

## ÞORRAÞRÆLLINN.

Nú er frost á Fróni,
frýs í æðum blóð;
kveður kuldaljóð
Kári' í jötunmóð;
yfir laxa-lóni
liggur klaka-þil;
hlær við hríðar-byl
hamra-gil.
Marar-bára blá
brotnar þung og há
unnar-steinum á
ygld og grett á brá;
yfir afla-tjóni
æðrast skipstjórinn;
harmar hlutinn sinn
hásetinn.

Horfir á heyja-forðann
hryggur búandinn:
"Minkar stabbinn minn,
magnast harðindin.
Nú er hann enn á norðan,

næðir kulda-él
yfir móa' og mel
myrkt sem hel."
Bóndans býli á
björtum þeytir snjá;
hjúin döpur hjá
honum sitja þá.
Hvítleit hringa-skorðan
huggar manninn trautt;
brátt er búrið autt,
búið snautt.

Þögull Þorri heyrir
þetta harma-kvein,
en gefur grið ei nein,
glíkur hörðum stein,
engri skepnn eirir,
alla fjær og nær
kulda-klónum slær
og kalt við hlær:
"Bóndi minn, þitt bú
betur stunda þú;
hugar-hrelling sú,
er hart þér þjakar nú,
þá mun hverfa', en fleiri
höpp þér falla' í skaut;
senn er sigruð þraut,
eg svíf á braut."

## TÁRIÐ.

Þú sæla heimsins svala-lind,
ó, silfurskæra tár,
er allri svalar ýta-kind
og ótal læknar sár.

Æ, hverf þú ei af auga mér,
þú ástarblíða tár,
er sorgir heims í burtu ber,
þótt blæði hjartans sár.

Mér himneskt ljós í hjarta skín
í hvert sinn, er eg græt,
því drottinn telur tárin mín—
eg trúi', og huggast læt.

---

## GRÖFIN.

Hvar er í heimi hæli trygt
og hvíld og mæðu-fró?
Hvar bærist aldrei hjarta hrygt?
Hvar heilög drotnar ró?

Það er hin djúpa dauðra gröf,
—þar dvínar sorg og stríð—
er sollin lífs fyrir handan höf
er höfn svo trygg og blíð.

Þú kælir heita hjartans glóð
og heiftar slökkur bál,
þú þaggar niður ástar-óð
og ekkert þekkir tál.

Þú læknar hjartans svöðusár
og svæfir augu þreytt,
þú þerrir burtu trega-tár
og trygga hvíld fær veitt.

Þú griða-staður mæðu-manns,
ó, myrka, þögla gröf,
þú ert hið eina hæli hans
og himins náðar-gjöf.

---

## LÍFSLEIÐI.

Huggarinn hreinn—
í heiminum annar því finst eigi neinn—
‖: græðari sollinna sára,
sefari tára. :‖

Ljáðu mér lið
líknsami dauði, að skiljist eg við
‖: hálar og hverfular brautir,
hættur og þrautir. :‖

Leiðist mér líf
logandi társtraumar, bölsollið kíf,
‖: skelfing og eilífur ótti,
endalaus flótti. :‖

Harms yfir höf
í höfnina tryggustu flyttu mig, gröf,
‖: huggaðu nagað af harmi
hjartað í barmi. :‖

---

## NÓTT.

Blæju dökkva breiðir of blundandi drótt
hin þýðlynda, þrúðhelga, þagmælska nótt.

Alt er svo þögult og alt er svo hljótt,
sofandi náttúran safnar nú þrótt.

Veit eg einn, sem vakir og verður ei rótt
um svartdimma, sárlanga, svefnlausa nótt.

Veit eg sár, er svella og svíða dag og nótt
um angurkvalið hjarta, sem aldrei verður rótt.

Hátt teygir Atlas ístinda blá,
himin ber hann allan herðum sér á.

Þyngri, hrelda hjarta, harmar þig þjá;
von er, að kveinstafir komi þér frá.

Því helzt til heiftarþunga þú himins reiði ber,
og helvíti brennur í harmköldu þér.

Þú vakir, veslings hjarta, þér verður aldrei rótt;
þú hvílist ekki fyrr, en á kaldri heljar nótt.

## VIÐ SJÓ.

Heyri eg við svartan sand
  sjávar-öldur drynja;
heyri' eg úrigt Hamdís grand
  höfgum rómi stynja.

Sé eg þrungið sjávar-rót
  sækja fast að láði;
heyri' eg Ægis harða snót
  hlakka' í sollnu gráði.

Eg er sjálfur, að eg skil,
  alda lífs á straumi,
er heljar-stranda harðra til
  hrekst í æfi-draumi.

Eg þótt berist stutta stund
  á strendur dauðans naumar,
mig soga út í sama mund
  sollnir æfi-straumar.

Hve nær mun á legi lífs
  lygna eina stundu?
Nær mun þrungin kólga kífs
  hvílast hels við grundu?

## SÓLSETUR.

Enn hefir álfröðull
endað daggöngu;
kveður hann grund
með geisla-kossi;
mót konungi dags,
er til hvíldar gengur,
breiðir bláan faðm
brosandi Rán.

Veiku mér í hjarta
í válegan mar
vonar-stjörnur
til viðar renna,
hlæja hrollkaldar
hrannir tíðar
heljar-glotti
við huga mínum.

Nú er sólsett
í sollnu brjósti,
grátþögul gríma
grúfir yfir hjarta;
aldrei mun oftar
ylgeisli nokkur
á rústir þess
roða bregða.

## ÓRAR.

Sé eg gneista-flug
og glóðir rauðar
tárlausum augum
tindra fyrir;
eru það líkbáls
loga-síur,
eða' óráðs-draumur
æðandi hjarta?

Hnígur helmóða
fyrir hugar-sjónir,
sé eg í draumi
daga horfna;
líða fram svipir
liðinna tíma,
og hasla sér völl
í huga mínum.

Heyri' eg raddir
hryðja sér braut
ægilegar
að eyra mínu;
eru það bergmál
í brestandi hjarta
horfinnar æfi
harma-kveina.

## BRIM.

Hefjast hlægjandi
hvítfaldaðar
Ægis meyjar
í sturmóði.
Heyrast í djúpi
dauðalegar
stunur hins mikla
marar drottins.

Geysast um hrannir
gáskafullar
lítið fley
með fullum seglum.
Stendur í stafni
stýrimaður
og augum ormfránum
of ægi lítur.

Knálega vaxinn
og karlmannlegur,
alvörugefinn
og óskelfdur
hefir hann hönd
á hjálmunveli
og beinir leið
litlum knerri.

Leika lábrostnar
Lægisdætur

stærilátur
við stýris-fjöður,
og með æðandi
ofsa-hlátri
á glens bregða
við gýmis vini.

"Sjáið," segja þær,
"sveinar ungir,
haddhvítar meyjar
og mikillátar.
Sæmir vel
virðum horskum
að dansa við mjúkar
meyjar Ægis."

Glotta sjómenn
og glens þeirra
virða vettugi
vonargóðir.
Langar þá að landi
lystir þá fremur
að hallast að barmi
bænda-dætra.

Rís þá reiður
hinn reginsterki
Ránar ver
frá rekkju svalri.
Kreppir hann knefa,
svo knúar hvítna,

en skeið lítil
skelfur á bárum.

Vex þá ásmegin
úrgum hrönnum.
Hamast þær allar
að hesti sævar;
en þögull
í þungum móði
stefnir að ströndu
stýrimaður.

Sést í særoki
svartur blettur.
"Lof sé guði!
land er fyrir stafni."
gegn um brimboða
bölvi slungna
landi nær
lítill bátur.

Gengið er til strandar
og gestum fagnað
kyssir mög móðir,
meyja sjafna.
Stynja ódælar
Ægismeyjar
afbrýðisamar
við auða strönd.

## EG

Áður á lífsins leiðir
mín ljúfa starði önd,
sem þá á hafrót horfir
halur af auðri strönd.

Nú er eg böls af bárum
borinn um æfi-straum;
ægja mér ógnir margar,
en alt þó líkast draum.

Senn er leiðinni lokið,
lúin og vegmóð önd;
mér munu öldur aftur
að óminnis varpa strönd.

---

## ANDVARPIÐ.

Þú milda kvein, frá mæddum liðið barmi,
er munarklökkum huga veitir frið,
með blíðri þögn þú lýsir huldum harmi,
sem heimur kaldur ekki kannast við.

Þú heit ert bæn og hjartans sannmál tunga.
þitt huliðs-mál er guði einum ljóst,
um andvökunótt er af sér varpar þunga
hið angurmædda, vinarlausa brjóst.

Er meyja fríð í björtum æskublóma
í brjósti dylur fyrsta munar-eld,

frá svásum barmi ástarblítt þú ómar
sem aftanblær um fagurt sumarkveld.

Er móðir blíð hjá barns síns legstað nýjum
brennheit fellir tár á moldar-hjúp,
þá líður þú sem leiftur gráts í skýjum,
er logar móður-hjartans elsku-djúp.

Og æ er vinur vinar-augum hverfur
og vonar-stjörnu byrgir dauða-sær,
en fast að hjarta sorg og harmur sverfur—
þú sálarinnar hörpu-strengi slær.

Er veröld bregzt og hjarta, gramt við heiminn,
sér hvíldar finnur engan sama-stað,
þú dularfult í dimman svífur geiminn
og dómstól himinsala stígur að.

Og loksins þegar lífs er þrotin gleði
og lengur eigi daga röðull skín,
er syndarinn á sínum hinsta beði
segir hryggur: "Drottinn, minstu mín,"—

á bana-stund frá brjósti þá þú líður,
en berst að eyrum, þegar hverfur alt,
frá frelsis-heim þinn bergmáls-ómur blíður:
"Bróðir, í dag þú með mér vera skalt!"

# ALT BREYTIST.

I.

Í litlum bæ við bláan straum,
við bernsku-sælan unaðs-draum
bjó sveinn hjá móður mjúkum barm,
af mildum sveiptur hennar arm,
og dreymdi hreina himindrauma
og hvorki þekti sorg né böl;
kinn hans var rjóð en hennar föl
og særð af volki saltra strauma;
eymdvakin tár í augum glóðu,
en af þeim bjartir geislar stóðu,
er leiptruðu sonar enni á
sem álfröðull á jökulgljá;
þeir geislar stóðu' af guðdóms-loga,
er glóir æ í móður-hjarta
og aldrei ljær svo birtu bjarta
sem þá, er tárin brennheit boga.
Hún starði sonar enni á,
eins og hún vildi' í huliðsrúnum,
skráðum í svip á drengsins brúnum,
ókomins tíma örlög sjá.
Og það var gleði gráti blandin,
góðvinar horfins mynd að sjá
sonarins kæru ásján á
og sjá, að þar bjó sami andinn.
Lokað var föður ljúfri sjón,
hann lá á köldum marar-botni,
móðirin trygglynd treysti drotni

og bar með hógværð harm og tjón.
Sneri sér öll til arfans bjarta
elskan hins blíða móður-hjarta,
sem bregður ei né breytir sér
og blóðhönd heljar sterkari' er.
Sofanda hrundu lokkar ljósir
um litarfagrar vanga-rósir,
sem vaka' á æsku vonar-árum
og vökvast móður ástar-tárum,
sem við eldheita ástar-kossa
enn þá skærara' og heitara' blossa.
Nú hægum blundi bregður sveinn
og brosir munnur ástarhreinn;
og augun blá, svo blíð og djúp,
sem brosi vorhimins heiður bogi,
er sveipar himin sólar-logi
í gulli fegri geisla-hjúp,
áhyggjulaus og laus við synd
þau ljúfrar móður störðu' á mynd.
Hans sæla blíð í brjósti hló,
blikaði ást af sjónarsteinum,
sakleysi' og yndi' í brjósti bjó,
sem börnunum er kunnugt einum.

II.

Í hárri borg, í hvelfdum sal,
hjarðríkum langt frá æsku-dal,
langt burt frá ættlands elfar-straumi
einmani mitt í heimsins glaumi,
hnugginn og sjúkur halur hvílir.

en hönd þar engrar móður skýlir,
Því nú hefir stirðnuð móður-mund
í moldu hvílt um langa stund.
Og lengur eru' ei lokkar hans
ljósir sem gull, en hélugráir
þeir léku bæði fölir og fáir
um bleika kinn hins mædda manns;
og nú var ekkert æsku-blóm
né yndis-roði hans á vöngum,
þau höfðu' á dögum lífsins löngum
skelfingar þolað skapa-dóm;
þau blóm, sem móður munar-tár
svo margoft vættu' um bernsku-ár,
sprottin í æsku unaðs-loga
undir sakleysis himin-boga,
þau voru brunnin burtu öll
í bitrum eldi gremju-tára,
þau eru daggfall sorgar-sára,
sem kyndill heit, svo köld sem mjöll.
Því heimurinn á tvens kyns tár,
þau til eru bæði mjúk og sár:
önnur frá himins sælu sölum,
er svölun veita mæddum hölum,
bernskunnar sælu blíða lind,
er burtu rýmir harma-mynd.
elskenda dýrstur ástar-sjóður
og ástar-fórnir blíðrar móður;—
en hin eru járnköld élja-drög,
jafnbitur eins og spjóta-lög,
eins og haglskúrir heljarsárar,

sem heimkynnis myrkra svartir árar
líða þau lífs um bjarta braut
og burtu nema alt þess skraut,
saknaðar, gremju' og grimdar tár,
gleymsku, iðrunar, harma sár,
elfur fárskaps, sem æða blindar,
afkvæmi spillingar og syndar.
Þetta hans hafði drepið dug,
á dauða-stund það flaug í hug;
of augu feigðar-bjarma brá,
bana-frostrósir vöngum á
draugslegar léku bláar og bleikar,
bærst gátu varir naumast veikar;
þungt leið frá hjarta andvarp eitt
og í því stöðvaðist hjarta þreytt.

---

## VEIÐIMAÐURINN.

Þars Mississippis megin-djúp fram brunar
í myrkum skógi' og vekur strauma-nið,
þars aftangeisli' í aldingulli funar
og undarlegan hefja fuglar klið,
þar sem að úlfar þjóta' um skógar-geima
og þreyttur hjörtur veiðimanninn flýr,
þars voðaleg með varúð áfram sveima
með víga-hug hin skæðu panþer-dýr;

þar sat um kveld, er sólin undurblíða
í sigurdýrð að ægi hníga vann,

og hvössum augum horfði' á strauminn stríða,
er stöðugt gegnum bjarka-sali rann,
með höndum tengdum halur veiðilúinn
og hafði byssu lagt á græna storð,
ramlega vaxinn, röggvar-feldi búinn;
við raust hann kvað og mælti þessi orð:

"Hver er svo einn og hjálparlaus í heimi?
—hugur minn þannig ósjálfrátt að spyr—
hver er svo langt í lífsins öfugstreymi
liðinn frá öllu, sem hann unni fyr?—
Horfin er æska' og æsku-vina fjöldi
og unglings-sálar munar-drauma líf.
Líf mitt eg yfir lít á þessu kvöldi
og langt í geimi minninganna svíf.

"Fæddur er eg á Frakka mæru vengi,
foreldrar mínir göfgir bjuggu þar;
í bernsku las eg blóm á Signár-engi
í blíðum hug, og glaður jafnan var;
leiksystur mínar leiddi eg við síðu
og ljúfum bræðrum ungur dvaldi hjá;
sýndu mér allir sanna ást og blíðu,
sýndist mér heimur fagur vera þá.

"Man eg þig, París, minnar æsku vagga,
þinn margtöfrandi yndislega glaum,
er sífelt reynir sorgir manns að þagga
og svæfa alt í munarværum draum;
man eg er gullinn gígju-strengur dundi
og gómsætt vín á mærri freyddi skál,

vonglaður eg hjá vinum mínum undi
og vissi' ei neitt um heimsins svik og tál.

"Ó, man eg líka meyjar-augað svarta
og munarvakið bros á heitri vör;
litfagra hönd og lokka-safnið bjarta,
í læðing ástar, sem að bindur fjör;
þá dreymdi mig um dýrð og himinsælu,
en dulin eigi þekti norna-ráð;
eg lifði sæll, sem lilja' í morgunkælu,
er laugar hana silfurdaggar gráð.

"Nú eru fölvar fagrar æsku-rósir
og fallið laufið grænt af visnum kvist',
hrímgaðir elli-hélu lokkar ljósir,
horfinna daga frægð er týnd og mist;
er yfir svífur æfi hörmum skygða,
einungis lítur hugar-sjónin snör
eiðbrigði, vinslit, ásta rof og trygða,
einfeldni tælda', og margs kyns heimsku-pör.

"Nei, eg vil ekki raunir mínar rekja,
né ræða margt um liðna æfi-tíð,
í sollnu brjósti svipi liðna vekja,
svikulum heimi til að rista níð.
Frá minna bernsku-bragða sjónar-sviði
eg burtu hélt um lönd og kaldan sjó;
um langa stund eg leitað hefi' að friði
og loksins fundið hann í þessum skóg.

"Hér er ei neitt, sem helzt sér æskja þjóðir,
og hjarta mannsins unun veita má;
enginn vinur, engin blíðlynd móðir,
ekkert geisla-skin á vinar-brá;
enginn, sem tár af úrgum strjúki hvarmi
og orðum vinar huggi mædda sál;
enginn, sem hallist upp að mínum barmi
og ástar minnar vermi sig við bál.

"En ekkert þvílíkt orkar mig að hræða,
því án þess vel eg glaður lifa kann;
í botn hef eg drukkið bikar lífsins gæða
og beiskan æ hinn síðsta dropa fann.
Í heimsins glaumi hygg eg æ að fljóti
hverfandi skuggar, táldragandi prjál;
í einverunni alt er þar á móti
alvörugefið, hreint og laust við tál.

"Hér vil eg una hinstu lífs um stundir
og hvílast eftir runnið æfiskeið;
í bjarka-skjóli blöðum visnum undir
eg blunda sætt og laus við alla neyð;
náttgalinn anzar andláts-stunum mínum
og aftangolan feykir þeim með sér;
en heimurinn með heimsku-pörum sínum,
hann hlær þá dátt og veit ei grand af mér.

"Og þá er sól að sævar-djúpi líður
og síðsta geisla slær á þennan lund,
þá fram minn svífur svipur angurblíður
og situr hér um þögla nætur-stund

og brosir móti björtum stjörnu-ljóma,
sem brosti' eg fyrr um mærrar æsku tíð,
og hverfur svo á beði lágra blóma,
er bjarmi morguns roðar fjalla-hlíð.

---

## HORFIN FEGURÐ.

Hverfanda alt á hveli líður,
í heimi stöðugt ei er neitt;
breytinga geysar stormur stríður,
hans sterka bára' er aldrei þreytt.
Svo fljótt hið fagra, sem hið myrka,
svífur á vængjum tímans braut;
eins valt er æ hið veika' og styrka,
vesalings eymd og konungs skraut.

Í ástarfögrum undurljóma
fyr augað snöggvast myndir ber;
og eyrað heyrir engilróma,
sem óðara þagna' og breyta sér.
Og eins í mannsins eigin barmi
er umbreytinga-báran stríð;
hann ýmist frýs af hatri' og harmi,
eða hlær þar ást og gleðin blíð.

Heill sé þér, fegurð, himins drotning,
í hlekkjum draums, er bindur sál,
þér allir sýna sanna lotning
og sigrar alt þitt töfra-mál;

þú hrein í ilmknapp anganrósar
og aftanroða geislum býrð,
þó bezt á ásján ungrar drósar
í allri þinni séstu dýrð.

Í ítrum stendur æsku-blóma
árroða lífsins vafið sprund
og ástar-raddir heyrir hljóma
og horfir æfi-vors á stund;
í augum faðmast ást og sæla
og unaðs-roða' á vanga slær;
þinn hróður tungur heimsins mæla,
þú heillar alt, er séð þig fær.

Að sjá þín augun blíðu' og björtu,
það blíða veitir sælu-stund;
með stygðar-svip þó seggja hjörtu
þú sárri nístir heljar-und.
Og sælu allir seggir leita,
þótt sorgar lifi þeir í geim;
og uppheims-sælu ýtum veita
þú ein í þessum megnar heim.

En örskjótt dagur æfi líður,
að augna-blikum fáum þú
á grafar hnípin barmi bíður—
þitt bjarta vor er horfið nú.
Þín höndin elli-hruma titrar
sem hélað strá í kulda-blæ,
og heljar drynja hrannir bitrar
fyr hlustum þínum sí og æ!

Nú brenna tár á bleikum vanga,
nú býr á kinnum engin rós,
þinn fótur má ei framar ganga,
þú framar sér ei heimsins ljós;
byrgð eru augun blind og döpur
og bros er horfið þér af vör;
en eilíf nótt, svo aum og nöpur,
þitt útsloknandi bindur fjör.

Þig enginn lengur viðmóts virðir,
vinirnir—hvar er þá að sjá?
þeir löngu dauðir liggja stirðir
líkfjölum moldu vorpnir á;
og sömu brátt þú götu gengur
og grafar hnígur myrkt í skaut,
og enginn minnist á þig lengur
né æsku þinnar dýrðar-skraut.

---

## MINNI ÍSLANDS.

### I.

Norður við heimskaut í svalköldum sævi,
svífandi heims glaumi langt skilin frá,
þrungin af eldi og þakin af snævi,
Þrúðvangi svipuð, með mjallhvíta brá
Eykonan forna og alkunna stendur,
ættar-land Ságu og frelsisins skjól,
þar sem að marghæfir mæringar endur
mentunar vermdust af geislandi sól.

Í jöklanna skjóli þú járnefldu geymdir
jólhelgar sagnir um Valhallar-þjóð,
athöfnum feðranna engum þú gleymdir;
inndælar fornkappa sögur og ljóð
endurtók bergmál þitt hverjum í hnjúki,
er heimur í myrkranna draummóki svaf;
fallandi tímanna foss þó að rjúki,
hann flytur það aldrei í gleymskunnar haf.

Skyldu þá arfar þér aldraðri gleyma,
ástkæra móður-land, kynsæla grund;
á þínum brjóstum, þar eigum vér heima,
æfinnar fyrstu þar lifðum vér stund.
Blessi þig drottinn um aldur og æfi,
eflist þinn hróður og vaxi þitt ráð,
norður við heimskaut í svalköldum sævi,
svellkrýnda, eldþrungna minninga láð.

II.

Feðra vorra fósturláð
faldið jökli köldum,
sem hið forna gyrðir gráð
grimmum sollið öldum,
í faðmi þínum fyrstu stund
vér fengum lífs að þreyja;
þar viljum sofna síðsta blund
og síðsta stríðið heyja.

Fyrr þig bygði, fanna-láð,
flokkurinn hreystimildi,

og þá fyrir frelsi' og dáð
fögrum hélztu skildi.
Gretti hetju gafstu móð,
Gunnars varstu móðir;
þeirra heilagt hjarta-blóð
hné á þínar slóðir.

Víst í rústum alt eins enn
aldinn lifir neisti,
enn þá hafa ungir menn
ást á dygð og hreysti;
svo vér minnumst enn við öl
aldins hetju-dreyra.
Enn þá svo vér bætum böl,
að bíða annað meira.

Meðan sveimar blíður blær
um bláa himingeima,
meðan sól í heiði hlær
og hafsins öldur streyma,
meðan svanur sætt með kvak
svanna gleður þjóðir—
okkar sérhvert andar-tak
er þér helgað, móðir.

III.

Goða-sagna gamla láð,
græðis sveipað bárum,
þar sem hreysti, dygð og dáð
drotnaði fyrr á árum,—

þar sem jökull himinhár
hlífir dalnum bjarta,
þar sem fyrst vér feldum tár
og fyrst vort gladdist hjarta,—

þar sem móður-höndin hlý
hjúkrun fyrst oss léði,
þar sem barna brjósti í
bjó hin fyrsta gleði.

Þinna ungu sona safn
sælu' á minnist þessa;
þitt hið mæra móður-nafn
mun því lengi blessa.

Klakabundna Kjartans-ey,
kynland fjörs og vonar,
þinn skal hróður enda ei,
ættland Þorvaldssonar.

Heill þér, foldin fönnum skygð
frosts í köldum heimi;
yfir þína breiðu bygð
blessun drottins streymi.

IV.

Ísland, Ísland, ó, ættar-land,
þú aldna gyðju-mynd,
þars báran kyssir svalan sand,
en sólin hnýtir geisla-band
um hrími þak.nn hamra-tind
í himins blárri lind.

vér æ í lífsins yndi' og harm
þig elskum, fósturgrund;
þótt klaka-hlekkir kreisti arm
og kalt sé við þinn móður-barm,
þar viljum eyða æfi-stund
og efsta festa blund.

Í faðmi þér nam finna skjól
hin forna kappa-þjóð,
þá skein hin fagra frelsis-sól
á fólknárunga höfuðból,
þar heyrðust fögur hetju-ljóð
á hrímgri jökulslóð.

Þig sögu-gyðjan himinhrein
til hælis valdi sér,
þú geymir frægra feðra bein
og forna vætt í hverjum stein,
og helgaður hver hóll á þér
af hetju-blóði er.

Ísland, Ísland, ó, ættar-land,
þér öld nú renni fríð;
og meðan úfið eyja-band
hinn aldna hverfist þinn um sand,
þig signi auðnan ástarblíð
um alla heimsins tíð.

## BJARNI JÓNSSON, REKTOR.

### I.

Með þakklæti, virðing og einlægri ást
og æskunnar saklausu gleði
vér minnumst þess öðlings, er aldrei oss brást
og örugga forsjá oss léði;
þótt æskan sé gleymin, hún gleymir því ei,
vér gleymum því ei meðan lifum.

Þú mæringur snjalli, nú minnumst vér þín,
æ minnumst vér umhyggju þinnar;
á sögunnar himni þitt skæra nafn skín
sem skilfinga fornaldarinnar;
og hver sá, er manndáð og ættjörðu ann,
þér óski til heilla og frama.

### II.

Fræða-gyðju mögur mær,
móður-jarðar sonur kær,
þýðri minning þinni
þetta helgum minni.
Gæfan fríða,
bjarta' og blíða
um braut þig leiði æfi-tíða;
þú, sem sælu suðri frá
svæði klaka græðir á
menta-blómin blíðu,
búin skrauti fríðu,

heims um daga
á hörpu Braga
hljóma nafn þitt lætur Saga.
Öðlingur kær,
ástvinur hreinn,
ættjörð ei fær
æðri þér neinn;
heill sé þér um æfi' og aldur.
Gleðin himinhrein
hjá þér búi ein,
harma-gustur kyrrist kaldur.
Lifðu langa stund,
lýstu feðra-grund,
þér góða elli gefi' alvaldur.

---

## BJÖRN JÓNSSON Á SKARÐSÁ.

Í litlum bæ hjá lygnum straum,
þars léttir fiskar vaka,
þar, sem í mærum munar-draum
að mildir svanir kvaka,
þars silfurfögur suðar lind
og sunna gyllir fjalla-tind—

þar fyrr með svanna búþegn bjó
að bænda-kosti hörðum;
hann sína jörð á sumrum sló
og sínum gætti' að hjörðum;

hans vinnugjörn og hög var hönd,
en hátt sér lyfti fjörug önd.

Hann unni sinni ættar-grund
með ástarblíðu hjarta;
hann þekti forna frægðar-stund
og frelsis-ljósið bjarta;
nú alt var horfið, hauðrið snautt
og helga frægðar-ljósið dautt.

Hann sá, hve alt var glatað og gleymt
frá gullöld sinnar þjóðar;
en hans var margt í huga geymt
um hagi jökulslóðar;
það skráði alt hans iðna mund
í aftankyrð um vetrar-stund.

Í myrku þjóðin móki svaf,
er margs kyns ólán þjáði;
hann, svo að vissi enginn af,
um örlög hennar skráði;
svo Bjarnar fróð og fjölvís sál
hin fornu þýddi huliðsmál.

Í sínu skauti sagnar-grund
nú sögu-manninn geymir,
en Snæland alla' um aldur stund
hans aldrei nafni gleymir;
því góðra drengja minning má
hin myrka tíð ei vinna á.

## ÞORKELL MÁNI.

Dvínar fjör, því dauðans grimmur andi
drápgjarn veifar hvössum brandi,
hætta tekur hjartað brátt að slá;
heljar-myrkur hylur ljósin hvarma,
himinsólar fagurskæran bjarma
brostin augu senn ei mega sjá.
Lífs míns dagur liðinn er að kveldi;
lítill virðist hann á dauðastund;
framar ekkert fær um jarðar-veldi
fró né huggun gefið minni lund.

Æ, hvar skal þá andinn hælis leita?
Ó, hvað kann mér huggun veita?
Hvað má biturt stytta dauða-stríð?
Meginskær, en myrkum vafin hjúpi,
minnar sálar fólgin inst í djúpi,
vakir óljós von um sælli tíð.
Í dularfullum draumi sér minn andi
dauðans myrka fyrir handan kvöld
himindýrðar-sali síblikandi,
er sveipa eilíf röðulgeisla-tjöld.

Leit eg fyrr um loftsins hvelfing víða
ljóma stjörnuherinn fríða,
sá eg mána mærast geisla-skraut.
Himinsól! í helgum morgunroða
hátign þína margoft nam eg skoða,
þegar skær um bláa gekst þú braut.

Ljómi þinn mér lýsti' á foldarvegi,
lýsa þinni fegurð enginn má,
vonglöð þína dýrð á þessum degi
dauða móðu falin augu sjá.

Undrast eg þinn íturfagra loga,
er allan gyllir himinboga—
hver hefir gætt þig geisla fögrum auð?
Hver svo skreytti himinhvelfing stjörnum?
Hver hefir lífið gefið foldar-börnum
og hjálpað þeim í háska' og allri nauð?
Skamsýn hyggja skilið ekki getur
sköpun heims né manna lífi í;
ímyndunaraflið traust þó setur
ósjálfrátt á hann, sem veldur því.

Nú er úti æfi minnar dagur;
ó, þú röðulgeisli fagur,
alt af mæna augu mín til þín.
Berðu mig um brautir himingeima
betri til og sælli dýrðar-heima,
þar, sem ætíð eilíf sunna skín.
Þér, sem skaptir skæran sólar-ljóma
og skepnum öllum veitir hulið lið,
anda, leystan ánauðar úr dróma,
andartakið hinsta fel eg við.

## DAUÐI ÞORMÓÐAR KOLBRÚNARSKÁLDS.

Stundin er komin, æfiár
enduð og sérhver jarðarmæða;
megnar nú enginn mín að græða
maður hin dauða-sollnu sár.
Helmyrkur fyrir sjónir sígur,
en sálin bráðum glöð burt flýgur
glepjandi heimsins glaumi frá
gullbjörtum engilvængjum á.

Sælt er nú eftir unnið stríð
unaðarsæta hvíld að taka;
svefninum fagnar sorgfull vaka,
því hann er þjáðum huggun blíð.
Lifað hef eg og löngum notið
lífsins gleði, en með fram hlotið
bitur að þola sorga-sár
og sollið margt að fella tár.

Lifað hef eg og liðið margt,
leitað hvíldar, en fundið eigi;
andlát mitt því eg óðfús þreyi
og óttast ekki helið hart.
Vinar mig styður enginn armur;
ýmist er lífið sæld og harmur,
því alt um víðan heimsins hring
háð er sífeldri umbreyting.

Stóð eg við vinar hrausta hönd,
er Hildar-leika aldrei flúði,
en hvassan brand í blóði dúði
og féndur marga firti önd;
honum eg unni heitast bragna,
en hlaut þó samt að boði ragna
—það mínu hjarta sárast sveið!—
við sverðs að skilja frægan meið.

Fjölmörg við unnum frægðar-verk
fimbulramir um Hildar-vengi;
háðum við stríð við hrausta drengi
og rufum glæstan Róða-serk.
En hann, sem engar hættur flúði
og hreysti sinni einni trúði,
varð þó að falla fölur nár;
fóstbróður vaktist harmur sár.

Fór eg um drafnar dimmblátt sund,
drifinn að Grænlands köldu ströndum;
bar eg þar flein í hraustum höndum
og falla lét á græna grund
hann, sem að vin minn heli seldi;
hvössum eg veifði Báleygs-eldi
og fyrir fjöndum varðist vel,
en veitti mörgum þeirra hel.

Kom eg á Noregs góða grund
og gylfa horskum þjóna náði,
sem nú í dag á sínu láði
sofnaði rótt hinn síðsta blund.

Glaður eg fylgi grami fríðum,
gunnfrægum dey með hetjulýðum
og svíf um himins geisla-geim
glaður frá jörð að betra heim.

Sat eg hjá mærri silkihrund
í svölum blæ á morgni fríðum;
kvökuðu hljómi himinblíðum
kátir fuglar í kyrrum lund.
Svöluðu vörum varmir kossar,
vöktu í hjarta ástar-blossar,
komandi' og liðin *h*varf mér tíð,
*h*verfandi stund var sæl og blíð.

Hvíldi eg mig við brennheitt brjóst
brosljúfrar meyjar, fagurleitrar,
yndisblíðrar og ástarheitrar
með kolsvart hár og hörund ljóst.
En það varaði stutta stundu,
straumar tímanna fram mér hrundu;
hurfu mér víf, og aleinn eg
óstuddur gekk um lífsins veg.

Horfin er æfi, hjartað kalt
í heljar-særðum barmi titrar;
ægja mér dauðans ógnir bitrar,
runnið er blóð úr æðum alt.
Hið myrka spor eg má nú stíga
og magnlaus nár á svæði hníga,
því alt, sem lifir, hrífur Hel—
heimur og elska, farðu vel!

## SKARPHÉÐINN.

Minstu nú, mín unga önd,
endur þeirra tíða,
þegar loga bundu bönd
Begþórshvol hinn fríða.

Héðinn einn þar gekk um glóð
sem gnoð í sjávar-róti,
og með helgum hetju-móð
horfði dauða móti.

Hreysti, mátt og hugar-þrek
hættur beygðu' ei neinar:
eldi-bröndum að hann lék
eins og knetti sveinar.

Höndin röm í reyk og glóð
Rimmugýgi hreyfði,
eins og Þór í þungum móð
þrúðgum Mjölni veifði.

Eyddrar lýsti æfi glans
um andans himinboga,
er ægigeislar auga hans
á öldum skulfu loga.

Leit hann yfir liðinn draum,
lífsins gleði' og þrautir
og undurdimman æfi-straum,
yfir farnar brautir.

Þá var æfi skundað skeið,
skapa fullnægt dómi;
fékk þá ekki forðað deyð
frægð né skjaldar-ljómi.

En hræðslulaust nam hetjan sjá
heljar-rökkrið svarta,
því geislar vonar glóðu á
gremi þrungnu hjarta.

Gegn um bitra heljar-hríð
og harða Skuldar-dóma
sá hann blika' af betri tíð
bjartan morgunljóma.

Hetja lifði' og hetja dó,
hetja í friði' og stríði;
frá sólarheimi sál hans fló
að sæld með hetjulýði.

---

## GUNNLAUGUR ORMSTUNGA.

[BROT.]

### FJÓRÐA KVÆÐI.—"TAFLIÐ."

Eldlokkuð sól af boga blám
brosfögur sveif af unnum gljám,
titruðu gullnar geisla-rúnir
um grjótbeltaðar fjalla-brúnir,
niðaði lind í djúpum dal,
dunaði foss í gljúfra-sal,

andaði þýður aftanblær,
kvakaði sætt hin ljúfa lóa
og léttfleyg sveif um græna móa,
angaði rósin roðaskær;
eygló að svölum sævi rann
og síðsta geisla helga vann
unglingum tveim, er saman sátu
og sælu lífsins notið gátu.
Að tafli léku svanni' og sveinn
og sá þau ekki maður neinn.
Hraustlega vaxinn halur var
hildingum líkur fornaldar;
vitnaði hönd um hetju-þrótt,
haukfránu augun dimm sem nótt
og brúna-himins heiðið bjarta
hugprúðu lýstu kappa-hjarta;
kolsvart var hár, en kinnin rjóð;
hetjunnar frægu bifðist barmur
(því brann í hjarta logi varmur)
öflugum þrunginn æsku-móð.
Við hlið hans skygður skjómi lá
skreyttur með gulli hjöltum á;
sat honum gagnvart svanni mær,
hýr, eins og þegar blómið blíða
með bládöggvaðan knappinn fríða
morgunroðanum móti hlær;
tindruðu augu brúðar blá
og blíðri lýstu ástar-þrá;
í saklausri fegurð sætt nam anga

sólar árljóma rós á vanga;
ljósgullnir lokkar blöktu' í blæ
sem í lognöldum leika tærum
ljóma sveipaðir himinskærum
gelsla röðuls á gljúpum sæ.
Sveininum unga sat hún hjá
sýnum fögur og hýr á brá,
sem gullhærð Sif á goða-láði
ginnmáttugs situr Þórs við hlið,
týhraustan svein hún tefldi við,
að hverjum leik hún gjörla gáði;
á tvinna starði tróðu hann
og taflsins minna gæta vann.
Var því af svanna sveinninn harði
sigraður langt um fyrr en varði;
í fáti greip hann fagra mund
og feimna starði' á silki-hrund:
"Ó, Helga, þér eg einni ann;
eg elska þig!" svo mælti hann.
Því vildi svara sveima-skorð,
en sérhvert dó á vörum orð.
"Gunnlaugur!" sagði' að eins hin unga
í ásta fjötrum svanna tunga,
og sér að vinar hlýju hjarta
hallaði vífið æskubjarta.

Og eygló hvarf við öldu bak,
ástfagurt hætti fugla-kvak,
silfraði döggin sérhvert strá,
en sumar-nætur himni frá

náföl og fögur mánamynd
unarmildum angurljóma
alhreina sló á reiti blóma
og endurskein í ljósri lind.
En hvort í annars örmum þá
í ástar-sælu dvala lá,
eins og blævaktar bárur tvær
blíðlega sig á straumi hneigja
og hvor í annarar örmum deyja,
en sólin blessuð signir þær:
eins þeirra sefar saman liðu
svalkalda gegn um tímans iðu
og dóu heim og heimsins glaum,
hreinum algleymis bundnir draum;
á hreinum vörum blítt nam blossa
brennandi logi sætra kossa;
frá gleði lífs þau liðu' og harm,
og lifðu hvort í annars barm.
Hinn fyrsti æsku-ástar-ljómi
angandi skein á lífsins blómi;
því heitast brennur hjarta' og önd,
nær æsku-fjörið fyrsta sinni
fagnandi drekkur Lofnar minni
og gefur sig á hennar hönd.
Ó, að sú stund svo ástarblíð
eilífa vara mætti tíð;
en ástar-rósir æsku-draums
í öldum hverfa tíðar-straums.
Svifhröð elskendum svífur frá
sælasta stund, er lífið á.

# GUNNLAUGUR OG HELGA.

Ur broti af rímuðum harmleik: "*Gunnlaugur Ormstunga.*"

*Gunnlaugur:*

Meðan á Íslands öldnu tinda
hinn alt ljómandi röðull skín,
meðan á úfnum eyja-linda
hin æðisgengna bára hvín
meðan að nætur-blysin brenna
og bogi himins stirndur er,
þér ann eg framast allra kvenna
og alt mitt líf skal helgað þér.

*Helga:*

Meðan að blíðum munar-rómi
hinn mildi hjalar vorsins blær
og kæran réttir koss að blómi,
á krystalls-lindar bakka' er grær,
þér ann eg framast allra sveina,
en orðin deyja mér á vör.

*Gunnlaugur:*

Þig skal eg, Helga! elska eina,
í æðum meðan logar fjör.

*Helga:*

Ó, sverjum fátt, en eiða alla
efnum því betur, verum trú.

*Gunnlaugur:*

Fyrr skal eg laufa-lostinn falla,
en líðir mér úr huga þú.

*Helga:*
Ást þína mun eg ávalt geyma.
*Gunnlaugur:*
Þín ást skal lögð í gröf með mér.
*Bæði:*
Þér skal eg aldrei, aldrei gleyma,
og alt mitt líf skal helgað þér.

---

## BRYNHILDAR-LJÓÐ.

Nú er æfi-skeið
á enda runnið
og hjarta harmþrungnu
helund slegin;
bölæfi liðinnar
bárur kaldar
brotna nú
á bana-ströndum.

Kveður nú ógndimma
undurstrauma
horfinna daga
hjarta deyjandi,
sárum sært
Sjafnar-eldi
og heiftar-glóð
heitri þrungið.

Kveður nú heim
í hinsta sinni
Brynhildur fagra
Buðladóttir:
liðnir eru dagar,
þá er hún lofða sonum
ágætust þótti
öðlinga dætra.

Farnir eru dagar,
er að fólkroði
vóð eg vædd
Vafuðs-skrúði;
lét eg hilding
til heljar stíga
grimmu gegn
goða ráði.

Þá, er að hörðum
Hildar-leiki
brá eg eggsárum
Angurvaðli,
var sem elding
um uppheims-sali
dimmu sundraði
drunga-skýi.

Synjað var mér
sverð að reiða;
varð eg draumblæju
dökkri falin;

var véberg mitt
vafurloga
háum girt
á Hindar-gnípu.

Þangað hinn hrausti
hilmis niður
fagurbúnum
fáki hleypti,
geystist of válegan
vafurloga
undir eldlegum
ægishjálmi.

Brá eg blundi
við buðlungs komu
og sikling horskan
sjónum leiddi,
manna fríðastan
fyrir mold ofan,
fyrða frægastan,
þann er Fáfni vó.

Fýsti' hann þá
fróðleik dýran
mínum af
munni nema;
kenda'g döglingi
djúpa speki;
né í veröld var
vitrari kona.

Sé eg hin dökku
döglings augu
alfögrum vafin
ástar-ljóma;
hvarf mér þá úr huga
hjörr og blóð,
lék þá líf mitt
í Lofnar hendi.

Og hjarta það,
er hrærðist aldrigi
og unni eggsárum
Óðins loga,
bifðist bálheitt
í barmi hvítum,
því enginn spornar
eðli móti.

Hallaði' að mínum
hvelfda barmi
höfði haddfögru
hilmir fríður,
og ilmsætum
ástar-kossi
á titrandi varir
tiggi þrýsti.

Hvílda'g í fylkis
faðmi blíðum
algleymis ástar
undinn draumi,

leizt mér þá heimur
lítils virði
öðlings mót
ástar-blíðu.

Unnum við hvort öðru
eiði dýra
og eilífar
ástir sórum;
er sem þeir ómi
fyrir eyrum mér
dimmri á
dauða-stundu.

Skildu mig
frá skilfingi frægum
bitur bönd;
það var bölið þyngst;
hilmir horskur
frá höllu minni
gullbitluðum
Grana hleypti.

Og ástvin mínum
illar vættir
sviplega
sjónir glöptu,
svo að hann hneigði
höfuð að barmi
annarar
öðlings-dóttur.

Svo var hinn fríði,
fráneygi sveinn
hrifinn burt
frá hjarta mínu.
Grét eg hann, grét eg hann
gullnum tárum,
sem fagurvaxin
Fensala dís.

Glöptu mér sjónir
Gjúka synir
og hug minn tældu
heilli illu;
því geng eg nú
að grafar-dyrum
ástalaus
og eiðrofi.

Vinlaus og ástlaus
veröld kveður
Brynhildur fagra
Buðladóttir
vargi lík,
er veiðimanni
helsærður
hefndar biður.

Nú hefi'g Sigurð
sæfðan látið,
buðlunga jaðar,
bitrum hjörvi.

Hve mátta'g unna
öðling frægstan
fljóði öðru
í faðmi geyma?

Hvað mátti heimur
hjarta stórlátu
framar veita
en fylki hraustan,
manna mestan
fyrir mold ofan,
fyrða frægastan,
þann er Fáfni vó?

Nú hefir Guðrún
Gjúkadóttir
iðgjöld hlotið
ilsku sinnar;
mangi hana nefnir
móður að syni
mildings mesta
fyrir mold ofan.

Undur og argskapur!
Illu heilli
hingað var eg
í heim borin.
Ó, hve fast hefir mig
of aldurdaga
heimur harðráður
helgreipum spent!

Harðar bið eg
hefndir að gjalda
ginnhelg goð
Gjúka-sonum.
Hefn þú blóðs okkars,
blómríka jörð,
en andláts-andvarpa
þú upphiminn.

Nú hins fráneyga
Fáfnis-bana
hjarta-blóð
hauður litar,
og sáru er
sverði stungið
Brynhildar bjart
brjóst í gegn um.

Unnað var mér aldrigi
öðlings að njóta,
andaðan skal eg hann
örmum vefja
og til gullskreyttra
goða-sala
sókndjörfum
sjóla fylgja.

Þá mun glatt
að Gimlis-sölum
við komu kyngöfgra
konungmanna;

þá mun Þórr
í þungum móði
til mildings hefnda
Mjölni veifa.

Þá mun Freyja,
fagurvaxin,
gráta örlög mín
gullnum tárum;
allir munu sjólar
uppheims-sala
vorum ils árna
ásta-spilli.

Brennið mig á báli
buðlungs hnigins;
þá skal ást vor
endurnýjast;
var það áður
eg vafði' hann örmum
innan vébanda
vafurloga.

Svo eru lík
lofða kinda
orpin elds
ægiljóma;
aldrei hefir himinn
helgari þegið
dreypifórn
djúprar ástar.

## MONGÓLARNIR.

Ofan af háum
Asíu hálsum
geysist grenjandi,
grár fyrir járnum,
múgur Mongóla
myrkhugaður
of engi frjó
og fagrar lendur.

Sem volegur
varga-sveimur
út úr myrkviðar
æðir djúpi
og hungruðum tönnum
og heljar-klóm
sauða-hjörð
sundrar spakri,—

svo fárefldir
frændur Húna
með bogum bentum
og bákn í mundum
Evrópu sléttur
yfir runnu
og öllu eyddu
með eldi' og brandi.

Skalf þá af döprum
dauða-hrolli

heimur gjörvallur
í heljar-greipum;
féllu blóðskúrir
á blómgar lendur,
en jörð skalf
af járnabraki.

Blöktu blóðfánar
í blænum hlýja,
hreifðist loft
af heiftar-orgi,
en friðsælar
og fagrar borgír
eldi eyddar
til ösku brunnu.

Hlakkaði hrævargur,
hlógu valkyrjur,
roðnaði grund
af riddara-blóði,
helfölur máni
frá himindjúpi
varp á valkesti
voða-bjarma.

Döggvuðust heitum
dætra tárum
ungverskar sléttur
aldinfrjóvar,
en bana-andvörp
frá brjótsi deyjanda

Úral-fjöll
endurtóku.

Nú er hin volega
víkinga-þjóð
horfin og gleymd
og grimdin þrotin,
er Þrúðvalds var
þrumu-fleygur,
syndugri jörð
sendur að hegna.

---

## 137. SÁLMUR DAVÍÐS.

Nescio qua natale solum dulcedine cunctos
trahit et immemores non sinit esse sui.

---*Ovidius.*

Við blástrauma
Babýlónar
sátum vér hryggvir
og Zíon þráðum;
hörpur grátþöglar
héngu vorar
á aldinfrjóvum
eikar-greinum.

Buðu þá
böðlar vorir,
er oss í þungri
áþján héldu:

"Látið nú glymja
gleði-söngva
um sigurdýrð
Zíons-borgar."

Ó, hvernig máttum vér
útlægir menn
ættjarðarlausir
um ættjörð syngja?

Yður, Jórsalir,
ef eg eigi man,
mín hægri hönd mér gleymi;
visni tunga mín,
ef eg virði' yður eigi
öllum unað framar.

---

## EYÐING JERÍKÓ-BORGAR.

Hinn fagurgjalla fugla-róm
fjalls-hlíðar grænar endursungu,
Jórdan fram rann með unaðs-óm,
ástar-rödd lék á hverri tungu,
bárur á helgum blóma-sjó
í blænum risu himinrunna,
mót roðaskærum rósum hló
reginljómandi himinsunna.

Breiddi sig hjörð um blómga grund,
bóndinn á akri sveittist glaður,

í pálma-viðar ljúfum lund
lúinn sig hvíldi ferða-maður,
svanfagran móður svaf við barm
saklausa barnið ástarhreina,
vinurinn studdist vinar-arm
og væran báði létti meina.

Þá sást of grænan vaða völl
víkinga sjót í grimmum móði;
vopn þeirra sýndust vera öll
í vörmu roðin manna-blóði;
örvænting sérhvert hjarta hreif,
hjálparlaus vænti hver síns dauða,
og djúpt að brjósti sorgin sveif
í svörtu myrkri harms og nauða.

Með voðalegum vopna-gný
víkinga-flokkur óstöðvandi,
alt eins og þegar þrumu-ský
af þungum sundrast loga-brandi,
múrana braut og virki veik,
varnarlaus þjóð í flokkum hrundi;
hulið var alt í eldi' og reik,
örmagnað brjóst í dauða stundi.

"Jehóva með oss!" sögðu svo
synir Ísraels herjum-tryldir
og fýstust bitran brand að þvo
í bræðra dreyra, heiftar-fyldir,
og ferleg grimda frömdu verk,
fáráða létu hníga ýta,

sundur nam hermanns höndin sterk
heilögu ástar-böndin slíta.

Já, brjóst var slitið brjósti frá;
barni ómálga, sakarvana
móður-brjóstunum mjúku hjá
mistilteins-eggin veitti bana;
öldungsins dundi dauða-blóð,
deyjandi stundu menn og konur—
síns í elskhuga faðmi fljóð,
við föður síðu hjartkær sonur.

Svo var Kanaans dróttin deydd
og dreyra roðnar blómgar grundir,
Jeríkó fagra eldi eydd,
ölturu Baals, helgir lundir.
Gyðinga-þjóðin gulli reifð,
er grimdar-verkið dapra háði,
hinna ástkæru ættar-leifð
sitt óðals-vengi kalla náði.

---

## ÁSTARBLÓMIÐ.

Þegar úr indælum
Edens-garði
rekinn var alfaðir
allra þjóða
og dauðans ógn
og eymda-fjöld

aumt mannkyn
yfir þirmdi,

fóru þá herskildi
heims of bygðir
synd og sorg,
systur dökkvar;
friður og sakleysi
á flótta lögðu,
þá var eymdar öld
og ófagnaðar.

Bárust bræður á
bana-spjótum,
var máttvana
varnar synjað,
níddust þrekmenni
á þróttar-snauðum,
harðari steini
voru hjörtu sveina.

Aumkaði drottinn
auma veröldu
og böls þess vildi
bætur um vinna;
sendi hann heimi
til harma-léttis
ástar-engil
frá uppheims-sölum.

Skyldi hann anda
í ýta hjörtu
ástar-blæ
ódauðlegum,
er sálir tvær
skyldi saman tengja
traustari böndum,
en blóðs og skyldu.

Leið á ljósvængjum
að lýða sölum
heilagur boði
himnesks friðar,
bar hann blikandi
blóm í hendi
sprottið á uppheims
undra-landi.

Leiddi hann sjónum
lýða hagi
og drótt sá
í djúpi hörmunga;
viknaði ástarblítt
engilhjarta,
er hann eymd manna
alla leit.

Hnigu himnesk,
hjartfólgin tár
af engils augum
á ódáins blóm,

svo að roðaskær
rósar bikar
döggvaðist eldheitum
engiltárum.

Hrærði' hann hóglega
hjörtu manna,
er syndar og sorgar
voru sveipuð fjötrum,
og guðdómlega
þar gróðursetti
ástar-rós,
er aldrei fölnar.

Vöknuðu þá
virða hjörtu
og löngun lífshlý
lifnaði' í barmi;
bifðist þá snóta
barmur fannhvítur
og feimnisroða
brá á fagrar kinnar.

Hnigu þá sálir
sveins og drósar
í inndælan ástar
algleymis-draum,
og himinblóm
hjartna ungra
í sælu-óminni
saman greru.

Voru blóm þau,
er í brjóstum spruttu,
úrug af engils
ástar-tárum;
því er æ
ásta-sæla
sorg og söknuði
sárum blandin.

Þannig æ munar
morgunsunna
tindrar ástefld
í tára-skúrum;
í grátskýjum hennar
geislar mynda
fagurleiftrandi
friðar-boga.

---

## ÓYNDI.

Þar, sem öldur dökkvar drynja
á dimmum sæ,
þar, sem háir hamrar stynja
í hríðar-blæ,
um fimbulkalda, forna' og auða
fjalla-slóð;
um ógnar-veldi eilífs dauða
og eldhrauns flóð—

Þangað helzt minn hugur stríður
hefur sig,
þars enginn gleði-geisli blíður
glepur mig;
hjartað engan gneista geymir
gleðinnar;
myrkva sjálfan dauðann dreymir
drauma þar.

---

## EINSTÆÐINGURINN.

Vegamóður lífs um leiðir
um langan veg eg götu þreyti
ei eg veit hvert á að halda,
oft því stefnu minni breyti.

Einmani eg áfram skunda,
aldrei megna við að standa;
á öllum stöðum er eg gestur;
enginn þekkir vegfaranda.

Sé eg börnin höfði halla
að himinblíðum móður-barmi;
sé eg unga sveina ganga
sæla' og studda föður-armi.

Engin móður-hönd mér hjúkrar,
hönd mína' enginn faðir styður,
sofa bæði' á svæfli moldar;
sé með þeirra dusti friður.

Sé eg leika systkin tíðum,
systur ungar, bræður glaða;
sé eg vini saman ræða
og sérhvern annan að sér laða

Enga systur, engan bróður,
engan vin í heimi á eg,
vinarlaus og vonarsnauður
í veröldinni reika má eg.

Þegar sól á lofti lækkar
og loga-geislum slær á vengi,
of kyrri hjörð á kvía-bóli
knýja fuglar gígju strengi.

Reykjar-skuggar léttir líða
í logni upp frá kyrrum bæjum,
þar sem inndæl sumarsæla
sveipar túnin grænum blæjum.

Samt þar upp frá arni mínum
enginn reykjar-skuggi líður,
Eg á hvergi, hvergi heima,
hvíldar-stöð mín engin bíður.

Halla' eg mæddu höfði' að steini,
heljar-nótt fyrir augu sígur;
andvarp sárt, sem enginn heyrir,
upp frá mínu brjósti stígur.

Þegar morguns þýður andi
þýtur hægt í úrgum stráum,

finnur af hending ferða-maður
fölvan ná und steini gráum.

Á líkið, sem ei lýðir kenna,
lætur klerkur varpað moldu;
þar eg sef í grafar gleymsku,
getur enginn mín á foldu.

---

## VÖGGUVÍSUR.

Þú sefur, barn, á svásum beði
og sælir draumar skemta þér;
þér hlær á ásján himnesk gleði,
en hjartað blítt og rólegt er.

Þú heims ei sinnir gjöllum glaumi,
né getur séð hans töfra-mátt;
alt eins og blóm á bláum straumi
þú berst um lífið ósjálfrátt.

Þú skilur eigi' í heimsins harmi,
þitt hjarta beygja engin sár,
á mæðu-sollnum móður-hvarmi
þú mátt ei skilja þrungin tár.

Þú saknar ei, þótt faðir fölur
í furu-kistu liggi nár;
þú hefir engar harma-tölur,
þig hryggir enginn missir sár.

Ó, sofðu, barn, í sælum draumi;
ó, sofðu rótt, meðan kostur er,
því síðar trautt í tímans glaumi
svo trúrrar værðar unt mun þér.

---

## HAUST.

Alt fram streymir endalaust,
ár og dagar líða;
nú er komið hrímkalt haust,
horfin sumars blíða.

Fölna grös, en blikna blóm,
af björkum laufin detta;
dauðalegum drynur óm
dröfn við fjarðar-kletta.

Alt er kalt og alt er dautt,
eilífur ríkir vetur;
berst mér negg í brjósti snautt,
en brostið ekki getur.

---

## MYRKUR.

Myrkur hylur marar-ál,
myrk sig skýin hringa;
myrkur er í minni sál,
myrkra hugrenninga.

## KVELDLJÓÐ.

Nú er glóhödduð
að græðisdýpi
hnigin sól
af himinleiðum.
Dagur er horfinn,
dimt er í geimi
sveipast viðbláum
svörtum skýjum.

Hrærist mér í brjósti
hjartað unga,
eldlegum þrungið
æskumóði.
Dreymir og dreymir
um daga betri,
vakir sofandi
í vonar-leiðslu.

Hvað eru inndælar
æsku vonir?
Deyjandi dögg
á dreymandi blómi.
Hvað er ást
í ungum brjóstum?
Að eins dásætra
drauma leikur.

Hjarta, hjarta!
sem himinn veitti

drauma-lífs
dýrðlegs að njóta,
flýðu veraldar
fánýtan glaum,
en sofðu vært
í sælu-draumi.

---

## SUMARKVELD.

Ó, hvað náttúran er nú fríð,
ununar-rík og himinblíð,
blómin anga svo hýr og hrein,
hjalar lækur við kaldan stein,
leika geislar á lygnum öldum,
leiftrar roði á skýja-tjöldum;
alskæru höfði er að halla
eldlokkuð sól að baki fjalla;
hver fær þér lýst af ýta öld,
alfagra, bjarta sumarkvöld!
Æsku-manns hrein og óspilt sál
ein fær skilið þitt huliðsmál,
er hnígandi sól í himinljóma
hjalar við gullna reiti blóma;
þú skilur ljúfan lækjar-nið
og löngunarblíðan fugla-klið
og fimbulraman frelsis-söng,
er foss í gljúfra kveður þröng,
En sú er fáum sæla léð,
svellkalt er flestra ýta geð;

margspiltir eru manna synir,
myrkur elskandi, ljóss óvinir,
því fagra lítinn gefa gaum,
girndanna hrekjast fyrir straum.

* * *

Vertu' ekki' að reyna' að velkja mig,
veröld; ó, eg hef elskað þig!
En þú varst gjörð af köldum klaka
og kunnir ei minni ást að taka;
tæla og véla viltu mig
verð eg nauðug'r að hata þig.

---

## Á VETRARDAGINN FYRSTA.

Nú blæs of hauður bitrum norðangjósti
og báran glymur köld við unnar-steina;
náttúran gjörvöll andláts-stunu eina
frá heljarsærðu heyrast lætur brjósti.

Snæþrungin ský í dimmu himins djúpi
með dauðalegum svip á hauður mæna,
horfið er alt úr hlíðum skrautið græna
og dalir klæðast köldum fanna hjúpi.

Hræðstu þó ekki, hjarta' í veikum barm',
að horfa lífs á götu vonarsnauða,
en treystu drottins tryggu föður-hönd;
hans gæsku-sól í gleði skín og harm'
og geislar hennar verma' í lífi og dauða;
hún þíðir hels og harma klaka-bönd.

## Á SÍÐASTA VETRARDAG.

Ó, farðu, vetur, vel í skautið alda,
þér vinar-kveðju' að skilnaði eg færi
og daufa strengi hörpu minnar hræri,
þótt hreyfist varla hjartað mitt hið kalda.

Eg skelfist er eg hugsa' um mína heimsku,
og horfi' á mínar liðnu æfi-tíðir,
og hve eg mjög hef æfi minni spilt;
ó, flyttu það að grafar-djúpi gleymsku,
og graf það djúpt, svo engir sjái lýðir,
hve harmar lífs mig hafa ært og trylt.

---

## HAUSTVÍSA.

Fölnar rós og bliknar blað
á birkigreinum;
húmar eins og haustar að
í hjartans leynum.

---

## VORVÍSA.

Nú andar sunnan blíður blær
og blóm í dala-skjóli grær
og lóan syngur ljóðin blíðu,
en lækir niða' á engi fríðu,
nú alt er glatt og alt er kátt
og yngdan gleður sig við mátt.

Fríð eru glaðra fugla hljóð,
fríð eru vorsins sigurljóð,
fagur er dagsins fyrirboði,
fagur er gullinn aftanroði,
fagurt er blóm í fjallahlíð,
fögur er lindin tær og blíð.

Eg finn þó eitt, sem fegra er
og framar öllu skemtir mér,
það ertú, meyjan munarbjarta,
þitt milda augað, hreina' og svarta,
sem vekur yndi' og veitir frið,
ei vorsins himinn jafnast við.

Síblómgan rósar-reit eg finn
á roðaskærri drósar kinn,
sem unun veitir anda mínum
og eilíft vor í faðmi þínum.
Þín ástar-röddin engilhrein
má enda kveykja líf í stein.

Við minnar æfi hinsta haust,
er heljar-storma dynur raust,
er linnir gleði lífs og harmi
og lúið hjarta frýs í barmi,
þegar um ítra æsku-stund
fyr örlög fram eg hníg á grund,

ef að þú, bjarta bauga-gná,
um beð minn lágan gengur þá,

æ, skreyttu leiðið litlu blómi
og ljúfum segðu ástar-rómi:
"Tárvætta þygðu trygðar-gjöf,
því trygðföst hjörtu' ei skilur gröf."

---

## Á KÖLDUM VORDEGI.

Beitilöndin byrgir fönn,
björg trúi' eg flesta þrjóti;
hungruð glottir Hel við tönn
höldum döprum móti.

Bjargarþrotnum bænda-múg
bendir flest á dauða;
ferlegan leggur feigðar-súg
um forða-sali auða.

Kalda fætur hungruð hjörð
hristir á gaddi frosnum,
augum svo á hretin hörð
horfir nærri brostnum.

Svíður mörgum sollin und,
sérhvað þreki týnir.
Nú eru farnir, frera-grund,
frægðar-dagar þínir.

Auðug varstú eina tíð,
engum pínd af böðli,
og þú brostir fræg og fríð
frelsis móti röðli.

Á þig herjað eigi blíð
örlaga-nornin hefur
og loksins eftir langvint stríð
líkblæju þig vefur.

Svo hin gamla Garðars-hólm
gráum sveipuð bárum,
eins og sigruð hetja' á hólm
hörðum deyr af sárum.

---

## ANDVAKA.

Þegar um nætur þögla stund
eg þreyi einn og felli tár
og hjartað slegið und við und
um öll sín hugsar djúpu sár,
þá er sem góður andi þrátt
að mér því hvísli skýrt, en lágt:
"Senn er nú gjörvöll sigruð þraut;
senn er á enda þyrnibraut."

---

## ANDLÁTS-BÆN.

Liðin á enda lífsins er tíð;
leiðin er þrotin, sem tíðum er stríð;
liðið er úr æðum hið logheita fjör,
lagt er mér að hjarta þeim eggsára hjör.

Lofa vil eg drottin liðna fyrir stund;
lúnum anda skila' eg í gjafarans mund;
lofa vil eg drottin, sem læknar mín sár;
lofa vil eg hann fyrir gleði og tár.

Fyrirgef mér, grunnlausa líknsemda lind;
legg þú eigi dóm á mína þungu synd;
heyr þú þinn deyjandi duglausa þjón
sem deyjandi ræningjans fyrrum á bón.

Af hjartans insta djúpi eg hrópa þig á:
hrind þú mér vesölum eigi þér frá;
alvaldur, deyjandi miskunna mér,
að megi' eg í Paradís vera hjá þér.

---

## LINDIN.

Til þín, vina, fljótt eg fer,
fagra lindin grænna dala,
því að einni unt er þér
angurmæddu brjósti' að svala.
Við engja-rósir alda þín
óman hreifir munarklökkri;
veröld sveipuð synda-rökkri
björt í þinni skuggsjá skín.

Þú við steina hjalar hljótt
hindar-máli unaðsblíðu,
kveður um sæla sumarnótt
og sjafnar-eld í brjósti þýðu;

þín mér skemtir bára blá,
í bana-stríði þegar titrar,
meðan geisli mánans glitrar
hennar blíðu brjóstum á.

Og hún sveiflast silfurtær
svöl og hrein um vegu bláa,
önnur þar til aldan slær
og eyðast hlýtur lífið smáa;
hennar dauða-brosið blítt
blikar móti stjörnu-loga
uppi' á heiðum himinboga
vonarbjart og vinarhlýtt.

Ó, að myrkva æfin mín
æfi hennar líkjast mætti,
og þegar loksins lífið dvín,
lyktaði með sama hætti.
Sannarlega' er sætt um stund
í sælu' að njóta gæða lífsins,
en undir eins við komu kífsins
sofna hinum blíða blund.

Sælt er að lesa broshýr blóm
blíðum vermdur sólar-ijóma;
sælt er að hlýða' á svana-róm
sveiftur himingeisla-dróma.
Samt mun ekki sælla fást,
en sínu lífs á vori fríðu
með hreinu brosi, himinblíðu,
heim að kveðja, æsku' og ást.

## SVANURINN.

Þú forna ey, er fanna-blæja þekur
í fimbuldjúpum norðurhafsins ál,
þú átt svo fátt, sem yndi lífsins vekur
og unaðs-draumi bindur mannsins sál,
þú velkist aldrei veiku munaðs-táli
og vekur ógn með þrungnu Heklu-báli.

Eitt er þar þó, sem anda mínum tíðum
ununar fékk um bjartan sumardag;
það ert þú, svanur, sem með rómi blíðum
syngur hið himinfagra ástar-lag;
með ljúfum róm þú löngun hjartans innir
og löngu horfna bernsku-stund á minnir.

Af hjarta mínu hörmum tíðum léttu
þín hjartans-kvöð og mörg þar græddu blóm,
þá er um vor með vatni spegilsléttu
vendi eg, til að hlýða þínum róm;
á unaðs-vængjum ástar-söngva þinna
önd mín þá fló að landi drauma sinna.

Og þegar sólin sveif að marar-gárum
og sigurbjarma sló á fjalla hlíð,
deyjandi geislar skulfu' á skærum bárum
og skemti' eg mér við þeirra dauða-stríð,
þá söngstu blítt, sem sorgarblíðum rómi
silfurskær tár þú vektir fögru blómi.

Samt þín í dauða syngur blíðast tunga,
með sætum róm þú kveður heim og líf.
Ó, lát mig, herra, hjartað geyma unga
svo hreint, að eins eg megi, burt er svíf,
sáttur við heim og síðsta dauðans kífið,
saklausum ástar-rómi kveðja lífið.

---

## KVEÐJA

úr bréfi til bróður skáldsins, 1866.

Heilsaðu öllum heima þar,
heilsaðu öllum, sem eg þekti,
sem eg í æsku ást til bar,
þá engin sorg minn huga blekti.
Heilsaðu breiðum Byrgis-sal
og bænum okkar, Svínadal.
Heill sé þér, járnköld Jökulsá;
ég hef þér löngum setið hjá.
Og blessun drottins berist æ
um bygðir þær, eg heitast unni;
síblíðum andi sælu-blæ
og svala-lind frá unaðs-brunni
líði of blessað bygðar-lag,
þar blíðan lifði' eg margan dag;
þar vil eg loksins líða hel.
ljúfasti bróðir, farðu vel!

## EINMANA.

Engan trúan á eg vin,
auðnu-dagar þverra;
einn eg harma, einn eg styn,
einn eg tárin þerra.

Einn eg gleðst og einn eg hlæ,
er ama-stundir linna;
að eins notið einn eg fæ
unaðs-drauma minna.

---

## MINNING.

Það var um haust, er himinsunna blíð
af heiðum boga var að ægi liðin,
en mána-geislar gyltu fjalla-hlíð,
eg glaður hlýddi' á lækjar-bunu niðinn;
og norðurljós við bláa fjalla-brún
blikuðu skær um heiðríkt stjörnu-veldi,
og bleikar engjar of og slegin tún
ununar-bjarma sló á þessu kveldi.

Þá gekk eg, mæra meyja, þér við hlið
og munarsæll við þína studdist hendi,
saman um ást og æsku ræddum við,
og auga þitt mér hlýja geisla sendi.
þá horfði' eg djúpt í hreina augna-lind,
sem hjarta þitt til botns eg vildi kanna;

í þeirri Eden sá eg enga synd,
en saklausa' ástar-trygð og gleði sanna.

Þá gleymdi' eg heim og gleymdi sjálfum mér
og glaður þáði koss af þínum munni,
í leiðslu hné eg hægt að barmi þér
og himinveigar drakk af vara-brunni.
Þá fanst mér létt að efna hvern þann eið,
er æskan sór í munar-sælu-draumi,
þá kendum við ei kaldan harm og neyð
komandi daga', er svaf í öldu-glaumi.

Sú stund er liðin, liðin sælu-tíð;
lind þinna sjóna hrein er ekki lengur,
úr hjarta þínu' er horfin Eden blíð,
þar hreyfist enginn munarklökkur strengur.
Þig höggormurinn hefir illa vilt;
þú hefir bergt á epli, sem var bannað;
þú hefir allri æfi þinni spilt.
Ástin er gleymin—það við getum sannað

---

## BÁLFÖR GAMALS UNNUSTU-BRÉFS.

Þér eg löngum þrýsti fast að barmi,
þig eg las um marga sæla stund;
mér þú varst í lífsins hrygð og harmi
huggun þrátt og græddir marga und.

Hjarta míns þú helgan loga kyntir,
hlýddi' eg þrátt á blíðu orðin þín,
heilagt ástar huliðs-mál þú intir
hjarta þess, er bærðist vegna mín.

Þú varst ástar-engill, friðar-boði,
eiðspjall trygðar, vonar-draums skuggsjá;
sælu-daga sýndist morgunroði
svífa frá þér lífs míns himin á.

Svo var þá, en þú mig dróst á tálar,
því mér falla tár um vanga nú;
töfra-smíði svikafullrar sálar
sé eg glögt að verið hefir þú.

Þú ert vætt af þúsund flærðar-tárum,
þín meinsæri enginn telja má;
líklegt er að báls í heitum bárum
ei brunnið geti ófögnuður sá.

Brendu, hverfðu, grimmri vafiið gleymsku,
gef eg eldi fals og ásta-tál;
grimmilega geld eg minnar heimsku,
gremja vekur löngu slokkið bál.

---

## ÁSTAVÍSUR.

Flughraður andi flýgur minn
í faðminn munarheita þinn,
þar sem að hreina hjartað slær
og helga ástar-blómið grær.

Ó, að við blíða brjóstið þitt
bresta loks mætti hjartað mitt,
svo vængjum þinnar ástar á
andi minn svifi heimi frá.

En tíminn mig þér flytur frá
forlaga sterkum vængjum á;
örmæddur flyt eg andláts-kvein,
einmani dey við kaldan stein.

Þótt fölur nár eg falli' á grund,
það fær mér gleði' á dauðastund,
að eina grátperlu augun þín
ástinni helga vegna mín.

---

## MANSÖNGUR.

Þegar eg hníg í faðminn þinn hinn fríða
og fast að þínum ástarríka barmi
þrýstir þú mér með yndislegum armi
og augað tindrar djúpa' og himinblíða,

þá er sem sætt eg sofni og í draumi
í sölum engla himinsælu njóti,
eg líð í burtu' úr lífsins öldu-róti
algleymis borinn undurdjúpum straumi;

þá óska eg—en orð eg má ei segja—
að aldrei mættu slíkar stundir þrjóta,

því himinsælu' í hjarta mér eg finn;
eg óska þess, eg aldrei þyrfti' að deyja,
um eilífð mætti' eg slíkrar sælu njóta;
mitt himna-ríki, það er faðmur þinn.

---

## TVÖ VIÐ UNDUM TÚNI Á.

Tvö við undum túni á
tárin dundu' af hvarmi,
mig lét hrundin hauklig þá
hvítum bundinn armi.

---

## MANVÍSUR.

### I.

Ef að eg væri álfur smár,
ósýnilegum vængjum búinn,
þá skldi' eg víða fljúga frár;
en færi eg að gerast lúinn,
hægindi skyldi' eg hallast á
(í heimi' er eigi slíkt að finna)
milli brjóstanna björtu þinna
og heyra þitt blíða hjarta slá.

### II.

Þitt fagra hjarta,
svo hreint og blítt,
þitt hörund bjarta,

þitt viðmót þýtt,
þitt augað mæra,
þitt ástar-tal
ástsjúkan særa
til bana hal.

III.

Ungr var ek, er ungri
unna-k fyrir Kjöl sunnan
fold eyvita öldu;
aldri fyrnisk þat skáldi.
Enn man-k atlot hennar,
enn þótt ei hana spenni;
enn vil ek henni unna;
enn er hún fríðust kvenna.

---

## SKILNAÐAR-KVEÐJA Á EFTIR LEIKJUM.

Lag: Hvað er svo glatt, o. s. frv.

Ó, lifið heilir! Hjér skal nema staðar;
í heimi öllu sín er mörkuð stund.
Vér æskjum sálir allar væru glaðar
og enginn maður bæri hrygga lund.
Ó, að í sælu hreyfðist sérhvert hjarta
og hvergi sæist ský á himni lífs,
en gleði-sólin sendi geisla bjarta
og svæfði þunga-öldur böls og kífs.

Og hafið þökk og heiður, vinir blíðir!
Vér hugarglaðir kveðjum yður nú.
Með undra-hraða æfi hverfa tíðir
og alt sér breytir skjótt um jarðar-bú.
En af því lífsins aldrei straumur bíður,
þess yndis njótum meðan kostur er.
Já, njótum glaðir lífsins, sem að líður.
því leið ófarna enginn fyrir sér.

Ó, hafið þökk! þér hlýdduð ljúfu geði
og horfðuð vora barna-leiki á.
Ó, að vér hefðum getað vakið gleði
og gaman yður, vinir góðir, hjá.
Vor vilji' er mikill, mátturinn er veikur,
en mannúð yðar gefur dug og þor.
Vér vitum það, að lífið alt er leikur
Að lifið heilir, ósk og bæn er vor.

---

## ÁSTARHARMUR.

Svífur nú rökkur of svellfrosið vengi,
sígur að kveldi og dags-birta þver;
hreyfi eg skjálfandi hörpunnar strengi;
hún er það eina, sem skemt getur mér.

Á hljómanna vængjum minn arnfleygur andi
frá óblíðu jarðar sér lyftir svo frár
og svífur að draumanna sólgyltu landi,
þars sorgirnar gleymast og ei falla tár.

Sælt er það hjarta, er sætlega dreymir
um sólheiða daga og bærist með ró;
sælt er það hjarta, er sorgunum gleymir;
ei saknaðar snortið af grimmefldri kló.

En er þá ei sæla í ástanna harmi?
Inndæl er sigruð og burt liðin þraut.
*H*vað er svo fagurt, sem kveldroðans bjarmi,
er *h*verfandi minnir á daghimins skraut?

Þeir eru sælir, er sýta og gráta,
því sælunnar faðir ei breytir sér einn.
Sælan er eins fyrir syrgjandi' og káta;
hann sér fyrir öllum; það gleymist ei neinn.

Ef sælunnar kynnum vér sjálfir að njóta,
í sælunnar allir þá lifðum vér draum.
Sæluna hver einn um síðir mun hljóta;
það syrgjendur gleður, því tíðin er naum.

---

## HEIMKOMAN.

Þar, sem að fyrst stóð vagga vor
á vorri feðra-grund
og fram vér gengum fyrstu spor
af föður studdir mund,
þann blett með léttri lund
vér lítum þessa stund
‖: og heilsum aftur æsku-dalnum fríða. :‖

## SKÓLAPILTA-SÖNGUR.

Sem léttur lax í straumi
‖: í lífsins öldu-glaumi :‖
vér líðum áfram æ um æsku-dagana,
tra-la-la-la!
Þá hver gleði annars eykur,
því andi vor er hvergi smeikur;
vort æsku-líf er leikur,
sem líður, tra-la-la!
Ha-ha, ha-ha, ha-ha, ha-ha, ha-ha, ha-ha, ha!
Vort æsku-líf er leikur,
sem líður, tra-la-la!

---

## FERÐAVÍSA.

Inndælla eg ei veit,
en o'n af fjöllum
koma í sæla sveit
og seggjum snjöllum
gista hjá;
gerist þá
svo glöð vor lund;
þá fagnar ferða-sveinn;
þinn faðmur er svo hreinn;
‖: þá fagnar ferða-sveinn; :‖
svo hreinn;
hann er svo hreinn,
þú gestrisna grund!

## HEFNDIN.

Eitt sinn einn eg gekk um grund
í grimmu vetrar-frosti;
á mig starði hringa-hrund
og hæðilega brosti.

Svo mér gerðist gramt í lund,
að gætni alla' eg misti;
greip því hvíta meyjar-mund
og mjúkar varir kysti.

Öðru greinir ekki frá
endir sögu minnar,
en sæll eg reyndi sjálfur þá
sætleik hefndarinnar.

---

## HEILABROT.

Með hnefum slær þú haus á þér,
er hyggur þú muni vísdóm geyma;
þær dyr að knýja ónýtt er,
því engin lifandi sál er heima.

---

## SJÁLFSLÝSING.

Oft með hrygð og harmi
horfi' eg lífs á veg,

trega-tár af hvarmi
tíðum felli eg,
veit eg fánýtt alt þó er;
hjartað mitt í heljar-klóm
hlær að sjálfu sér.

---

## Á KALDADAL.

Yfir kaldan eyðisand
einn um nótt eg sveima;
nú er horfið Norðurland,
nú á eg hvergi heima.

---

## LAUSAVÍSUR.

Guð veit manns að græða mein,
þótt grandi lífs-andstreymi;
sérhvert metur hann sorgar-kvein
á synda-þjáðum beimi.

---

Geng eg dapur gegn um kífs
gremju-sollna strauma,
en sælla nýt þó löngum lífs
á landi minna drauma.

---

Náttúran er ávalt eins,
aldrei sér hún breytir;
þó að gangi margt til meins,
mér það unun veitir.

---

Gegn um heimsins harma-safn
hugaður skaltu fara,
en freistinga við tælitafn
taka lífi vara.

---

Aldrei græt eg gengna stund,
en gleðst af því, sem líður;
ljóst eg veit, að læknuð und
lengur ekki svíður.

---

Við skulum ekki víla hót;
það varla léttir trega;
og það er þó ávalt búnings-bót
að bera sig karlmannlega.

---

Senn í hörðum bana-blæ
brotnar andar-stofa;
andvökulaust eina' eg fæ
eilífa nótt að sofa.

---

Um fölvar kinnar falla tár
fjörs um daga línu;
óteljandi svöðu-sár
svella hjarta mínu.

En haldi guð um hjálmunvöl,
hót ei þarf að kvíða,
margt þó særi biturt böl
um bárur æfi-tíða.

---

Sorgar-skýja svífur fjöld
sól fyrir gleði bjarta,
óánægju koldimt kvöld
hvílir of mínu hjarta.

---

Alt þó sýnist blítt og bjart
blysum fyrir hvarma,
innra getur manni margt
megna vakið harma.

---

Vaka lífsins verði þér
svo vær og ljúf og full af ró,
eins og bana-blundur mér
blíðri niðri' í grafar-þró.

Hjartans blæðir opin und
ýfð af Lofnar völdum,
þótt eg fylgi stund og stund
með straumi tímans köldum.

---

Eilífa tíð og alvítt rúm
þótt andinn skoðað fengi,
undum sollið hjartans húm
hölda þekti engi.

---

Í heim eg nakinn hér kom fyrst
heiminn nakinn við eg skil:
ekkert grætt og ekkert mist
eg á því hefi' að vera til.

## EFTIRMÆLI.

---

### HELGI BYSKUP THORDERSEN.

Ó, grát þú, kalda Garðars-frón,
því drottins mikla hetjan hnígur
og húmi sveipað fótmál stígur;
það er fögur, en sorgleg sjón.

Í þínu skauti frið hann fann,
mót fjöndum þínum æ fékk varist;
góðri baráttu gat hann barizt
og loksins sælan sigur vann.

Huggastu, gamla Garðars-hólm,
er grætur þú þinn bezta niðja,
er þig um æfi-ár nam styðja;
skoraðu þjóðir heims á hólm:

"*Sýnið af yðar sonum þann,*
*er meira unni móður-láði,*
*meira vantrú og bræsni fjáði*
*og betur skyldu-verkið vann!*"

Ó, sæla hetja, sofðu rótt
þín sál með helgum öndum lifir
og hrósar sigri sönnum yfir
vantrúar-öld og villu-nótt.

---

## JÓN PRESTUR ÞORSTEINSSON

Nú stirða vil eg strengi
með sterkum boga slá;
eg hljóðs bið hölda mengi
og hlýða ljóð mín á:
þess mærings vil eg minnast,
er mestan hróður vann;
því fáir munu finnast,
er fremri voru' en hann.

Um æsku-daga dýra
á dimma æfi-slóð
nam horfa augað hýra
í helgum æsku-móð;
því hjartað hvatti fríða
hið horfna kappa-fjör;
mót böli búinn stríða
hann brugðnum stóð með hjör.

Og lífs um daga langa
hann lét ei fallast hug,
við harm á hólm réð ganga
með hetju-móð og dug;

og vigri Skuld er veifði
með vígum tamri mund,
hann eggjar dísar deyfði
með dýrri karlmanns-lund.

Þó aldrei eigin hreysti
hann einni trúa vann;
en góðum guði treysti;
né gleymdi' að biðja hann.
Hann lék í glöðum glaumi,
er gleði-sunna hló;
af hörðum harma-straumi
lét hrekjast aldrei þó.

Er lífsins röðull lækka
á leiðum sínum vann
og flest það tók að fækka,
er fyrrum gladdi hann,
hann leit á liðna daga
og liðinn æfi-draum;
og sætt þá brosti Saga
und silfurtærum straum.

Á sælu hveli skjaldar
hún skráði nöfnin dýr,
þars hópur hetju-aldar
í helgri minning býr;
og fágað frægðar-ljóma
hans fagra nafn þar skein;
þess lof mun lengur hljóma,
en letur sést á stein'.

Svo þýð hin þögla gríma
nam þreyttan hvíla beim,
er lífs að liðnum tíma
fór læjandi af heim;
en gullnum geislum friðar
með guðdómlegri ró,
lífs sól er sé til viðar,
á silfurhærur sló.

Nú hvílir hetjan styrkva
á hægri grafar-sæng,
en sál frá sorgar-myrkva
er svifin ljóss á væng;
og uppheims-stjörnum ofar,
þars engin blæða sár,
hún lávarð himna lofar
fyr liðna gleði' og tár.

---

## INGIBJÖRG HALLDÓRSDÓTTIR.

Þótt hnígi sól að svölum hrönnum
og sveipi hauður koldimm nótt,
þótt fagni fugl á greinum grönnum
og gleði dagsins hverfi skjótt,
þótt drjúpi úrsvöl dögg á rós—
ei deyr hið fagra himinljós.

Að morgni rís frá austur-unnum
í allri dýrð hin fagra sól

og hreinum geislum, himinrunnum
hlæjandi kyssir jarðar-ból;
hún þerrir fríðrar fjólu tár
og foldar græðir kulda-sár.

Svo gengur alt að guðs vors ráði,
gleðin og sorgin skiftast á;
þótt vinur hnígi lík að láði
og logi tár á hreldri brá,
þá huggar eitt, sem aldrei brást:
Vér aftur síðar munum sjást.

* * *

Hví greip þig dauðans harða hönd
úr heimi burt svo skjótt?
Hví sleit hann ástar blíðu bönd
og breytti dag í nótt?
Hví særir hann nú saknaðar-tár
af sorgar-mæddum hvarm
og þrungin blæða svöðu-sár
í sollnum lætur barm?

Hví er nú visnuð vanga-rós
og viðkvæm stirðnuð mund?
Hví er nú brostið brúna-ljós,
er blikaði skært um stund?
Hví er nú sofinn svipur hreinn
og saklaust hjarta kalt?
Eg veit það ei! Þú veizt það einn,
sem veizt í heimi alt.

Þú vildir ei hið blíða blóm
að beygðu vetrar-hregg,
né frostvindar með feigðar-róm
hið fagra skelfdu negg;
þú sást, að æsku-svefn er vær
og saklaust hjarta rótt,
og lést það falla, faðir kær,
á fyrstu kulda-nótt.

Og engill leið frá sælu-sal
um sólar-hvolfið bjart
niður að jarðar dimmum dal
og dýra hjartað snart;
og jarðar-lífsins brustu bönd
og burtu skugga dró—
að himins-dýrð hin unga önd
á engilvængjum fló.

---

## EFTIR BARN.

Alt það, sem fæðist, fæðist til að harma
og fella tár,
unz hinstan lífs það lítur sólar-bjarma
og legst svo nár.

Því heiminum vér heilsum fyrst með tárum
og hvellum grát,
kveðjum hann eins með andvörpunum sárum
við okkar lát.

Ó, sæll hann er, sem ungur burt má svífa
frá eymd og harm,
áður en sorgir hjörtun óspilt hrífa
í hreinum barm.

Já, sæl ert þú, sem stuttan tíma dvaldir
í stundar-heim,
og æðri bústað eilífan þér valdir
í unaðs-geim

Þú leizt sem snöggvast ljóma sólar fríðan
og leiðst á braut
í frelsarans, sem faðmar alheim víðan,
friðarblítt skaut.

Sæl ertu því hjá sólnaveldis ráði
svifin frá heim,
og syngur lof á samfundanna láði
siklingi þeim.

---

## VIÐ LÁT VINAR MÍNS.

Nú samvist þinni' eg sviftur er;
—eg sé þig aldrei meir!
Ástvinirnir, sem ann eg hér,
svo allir fara þeir.

Eg felli tár, en hví eg græt?
Því heimskingi eg er!
Þín minning, hún er sæl og sæt,
og sömu leið eg fer.

Já, sömu leið! En hvert fer þú?
Þig hylja sé eg gröf;
þar mun eg eitt sinn eiga bú
of æfi svifinn höf.

En er þín sála sigri kætt
og sæla búin þér?
Eg veit það ekki!—sofðu sætt!
—en sömu leið eg fer.

# II.—ÞÝÐINGAR.

---

## EI SKALTU GANGA' AÐ GLEÐI-BOÐI.

Eftir *Thomas Moore*.

Ei skaltu ganga' að gleði-boði,
hvar gjálíf æskan leikur dátt
og æfi sína öldra-goði
og ástum helgar dag og nátt.
Hvílstu hjá mér í lágum lundi
langt fjarri æstum heimsins glaum;
lát þar þinn anda bregða blundi,
sem bundin var í gleymsku-draum.

Og meðan blöðum bleikra kvista
brimkaldur stormur slær á grund,
þá við á vini minnumst mista,
margrofin heit og liðna stund.
Grannar og visnar greinir lafa
of grátþöglum stað um kalda nótt.
Við drekkum minni grænna grafa,
hvar gleymda hreystin sefur rótt.

# HEFNDIN.

Eftir *Johan Ludvig Runeberg.*

Um leiðir blóma leikur sér
lækjar-báran kvika;
grasi vafið engið er,
ótal rósir blika.

Fagrar meyjar fóru' að sjá
fríða sumar-dalinn;
ungur sveinn í leyni lá
und litlum runni falinn.

Linda skemta lofnar sér,
leika, dansa, skrafa,
og segja margt, sem ekki er
eftir vert að hafa.

"Ef maður heyra oss nú á
einhver mætti' og líta,
mundi blygðun mála þá
marga vanga hvíta.

"Við skulum setja svo," þá kvað
sveinn og reis á fætur,
"að runnurinn hérna heyrði það;
hann hefir á mörgu gætur."

"Grípum hann, sem hraðast má!"
Hann er þegar tekinn.
"Hann skal bundinn hefndir fá!"
Hefndin vel er rekin.

Í fífla-leggjum fjötraður sveinn
fékk þá hegning þunga,
því kátur svanni hver og einn
kysti drenginn unga.

---

## TEKLA.

Eftir *Schiller;* snúið úr "*Wallenstein.*"

Það er andi hans,
sem á mig kallar,
og sveitir sveina
hinna sókndjörfu,
er í hadd jarðar
með honum féllu,
hans svo hefndar-fórn
heita mætti.

Fyrir dvöl
drengir hraustir
óvirðulega
mig ásaka,
Þeir, sem foringja
fylgdu sínum
og létu glaðir
líf með honum.

Svo gerðu hetjur
hinar hugstóru.
Skal eg þá ein
eftir lifa?

Nei, nei! lárviður,
er lík hans skreytti,
vegna mín
þar var og laginn.

Ó, hvað er lífið
án ástar-ljóma?
Autt og dapurt
og einskis virði;
það að vettugi
virða hlýt eg,
nær þess ágæti
alt er horfið.

Ó, nær ást þína
eg unnið hafði,
leiðir mér sýndust
lífsins bjartar;
alfagran dag
í árljóma runninn
sá eg tvær stundir
í sælu-draumi.

Þegar á leiksvið
lífs eg vendi,
við inngang þess
stóðstu engilfagur;
sýndust mér þá
sólir þúsund
hina vonfögru
veröld gylla.

Þú, sem frá bernsku
björtum dögum
engill varst minna
æsku-drauma,
unna'g einum þér
árgeisla blíðra
ástar-lífs-morguns
æfi minnar.

Titruðu hjartans
tilfinningar
sem aftanskin
á öldu gljúpri,
og auga þíns
unaðgeislar
í minni sál
endurskinu.

Eyddu þá örlög
með ofríki
hörð og köld
hjartans gleði
og vin ástríkan
í val feldu.
Slík eru forlög
hins fagra' í heimi!

## SÆLA FRIÐÞJÓFS.

Eftir *Esaias Tegnér.*

Fljótt synir Bela ferðir laga
um frónið, liðs að afla sér;
þeim býðst ei mitt; í Baldurs-haga
mitt bardaga-svið og heimur er.
Því vil eg laus við þungan ekka
ei þengils skeyta' um heiftar-geð,
og tvímenning guða-gleði drekka
glóhærðri Ingibjörgu með.

Og meðan geisla-unnir margar
umvefja blóma-ríkið ljóst,
ímynd þess ljóma', er Ingibjargar
ástheita sveipar meyjar-brjóst,
eg mun á auðri ströndu standa
stúrandi mjög með hjarta sært
og rita þar á sjávar-sanda
með sverði hennar nafnið kært.

Ó, hversu lengi líður stundin,
hve lengi, dagur, tefur þú!
hefurðu' ei skoðað lága lundinn
og ljósa tinda fyrr en nú?
Býr ekkert víf hjá vesturstraumi,
sem væntir þinnar komu hljóð,
til þess að syngja' í sælum draumi
sveipt þínum geisla ástar-ljóð.

Nú þreyttur eftir langar leiðir
þú loks of dverga stígur fald;
aftaninn guða yfir breiðir
unun gullroðið hvílu-tjald.
Um ást mér heyrist, lind, þú ljóðir,
og ljúfur blær um himinbraut.
Heill sé þér, gríma, guða-móðir,
gljáperlum sett með brúðar-skraut.

Þögular stjörnur leið fram líða,
líkar elskhuga meyjar til.
Elliði, yfir fjörðinn fríða
flughraður svífðu mér í vil.
halda vil eg til helgra stranda,
í helgilundum skemta mér,
þars Baldurs hörgar bjartir standa,
þars blíða ástar-gyðjan er.

Ó, hversu sæll eg stíg á grundu;
þú, storð, þig vildi kyssa eg
og blóm, sem hreinni breiðið mundu
blæju guðvefjar á minn veg;
þú, gullni máni, geisla fága
glitrandi lætur hof og lund,
eins og í brúðkaups-sölum Sága
þú sæll í geisla hvílir blund.

Hver kendi bekk við blóm í dölum
mín blíð að hjala ástar-ljóð?

Hver kendi norðurs nætur-gölum,
míns neggs að kveða sorgar-óð?
Mynd Ingibjargar álfar rita
með aftanroða húms á dúk;
þá fegurð má ei Freyja vita—
hún feykir því burtu öfundsjúk.

Sjálft lít eg vífið vonarfríða,
þótt vegleg hverfi himinmynd;
eins trygg og minning æsku-tíða
mér ástar hennar svalar lind.
Ó, lát mig þrýsta þér að hjarta,
sem þinna vegna bærist ótt;
þú, von míns anda ástarbjarta,
i örmum mínum hvíldu rótt.

Blómskrauti rósa búin rjóðra
og björt sem morgunroða-ský,
svo hrein sem hugur guða góðra,
sem Gefnar andvörp munarhlý—
ó, kystu mig, svo ljúfur logi
lifni míns neggs í hjarta þér;
hverfa mér jörð og himinbogi,
er hreinan koss þú gefur mér.

Óttast þú ei. Með hrausta hölda
hér er í gunnar-skrúði Björn,
óvina móti ægum fjölda
örugga fús að sýna vörn.
ó, að eg mætti málms að fundi
með þig í faðmi ganga nú;

að Valhöll sæll eg venda mundi,
valkyrja mín ef yrðir þú.

Hvað þú um Baldurs reiði ræðir?
Hann reiðist ei, hið milda goð;
elskenda bænir hann í hæðir
heyrir, því ástin er hans boð.
Sá guð með ást í brjósti blíðu
og blæju geisla enni skreytt,
hann unni Nönnu ástarþýðu,
sem eg þér nú, svo blítt og heitt.

Hann hjá oss er og mynd hans mæra;
á mig hans starir auga blítt.
Fórn vil eg helga honum færa,
mitt hjarta varmt og ástarþýtt;
föllum á kné, því fórn ei veita
fegri né betri kunnum vér,
en trygð hvort öðru hreinni' er heita
tvö hjörtu, svo sem Baldurs er.

Virð mína elsku hreina' og heita,
sem himni' er meira skyld en grund
og heim til himins lystir leita,
þars ljúfa dvaldi' hún bernsku-stund;
ó, að eg þar nú alsæll dveldi,
ó, að eg léti með þér líf
og uppheims-sölum að svo héldi
í örmum þínum, fölva víf!

Svo meðan herja hópar stríðir
um hallar gullna riðu grind,
hjá þér eg sæti, svanninn fríði,
og sjónum leiddi þína mynd.
Nær öldradísir Óðins sala
einhverjum bæru ljúfan mjöð,
um ást við skyldum hljótt þá hjala
og hornin gullnu tæma glöð.

Laufsal eg byggja ljúfan mundi
á ljósri strönd hjá firði blám;
þar skyldum við í blíðum blundi
und björtum hvílast epla-trjám.
Er sólin myndum morgunroða
hinn myrkva skreytti himingeim,
þá við að sölum svifum goða;
og samt oss fýsti þangað heim.

Loggeisla þinna lokka fríðu
með ljósum skreytti' eg stjörnu-her,
síðan í Vingólfs sölum blíðu
í sælu léki, víf, með þér;
af gleði' og ást vor hjörtu hlægi
himinsins dýrðar unun seld,
er silfurskeggi búinn Bragi
brúðkvæði flytti nýtt hvert kveld.

Nú heyrist söngur þrasta þýður,
þrúðhelgri Valhöll svifinn frá;
á lægi máni leiftrar blíður,
úr landi dauða' er bjarmi sá;

og ásta-veröld mynda mæra
hið milda ljós og kvæðin fjörg;
þann heim að sjá eg þrái' hinn skæra
með þér—með þér, ó Ingibjörg!

Ó, grát þú ei, því enn þá straumar
í æðum mínum boga lífs;
en tíðum mannsins munar-draumar
frá myrkum svífa slóðum kífs.
En er þú faðminn bjarta breiðir
og blíðu augun tindra hrein,
ofan til þín þú óðar' leiðir
af uppheims-sælu hrifinn svein.

Lævirkinn kveður; kátt nú dúfu
kvakið í lundi heyrast vann.
Lævirkinn sefur; sætt und þúfu
hjá sínum maka blundar hann.
Þau eru sæl; þeim engin meina
umbreyting tímans samvist má;
þau eru frjáls sem fjaðrir hreinar,
er flytja þau um loftin blá.

Nú dagur skín; nei, daufur ljómi
dreifist um austur vita frá;
enn þá er nótt og enn í tómi
um ást við þig eg hjala má.
Flýt þér ei, dagsins dýra stjarna,
í djúpan skalt þú hníga blund;
Friðþjófi sofa fyrir gjarna
að fimbulvetrar máttu stund.

Nei, slíkt er heimska' að hugsa' og segja,
því hægur andar morgunblær,
eins og á vanga minnar meyjar
í munar-ljóma rósin hlær.
Nú hreyfist lífið; hrannir blika
og hópar fugla leika sér;
þeir syngja blítt með sefa kvika,
en sjafni burt og nóttin fer.

Í allri dýrð hún upp nú líður—
ósk mína fyrirgefðu, sól!—
og geisli hennar gimlisblíður
gyllir hið myrka foldar-ból.
Sá væri sæll, er veg sinn gengi,
sem veg þinn björt þú gengur nú,
og ljóss og sigurs líf sitt fengi
í ljóma sveipað eins og þú.

Þér færa' eg vil og fríðan sýna
fegursta dýrgrip norðurheims.
Ó, uppheims-röðull, annast þína
ímynd á slóðum jarðar-geims;
hreinn sem þitt ljós er hennar andi,
sem himinn þinn er augað blítt,
álíka bjart og alskínandi
er ykkar lokka-safnið blítt.

Farðu vel, ástmey!—öðru sinni
aðra við sjáumst lengri nótt;
af vör eg enn þá eitt sinn þinni
ástanna mungát teyga rótt.

Sjáðu mig oft í sælum draumi;
saknandi göngu tímans mæl.
Mundu mig lífs í grimmum glaumi;
gleymdu mér ekki! vertu sæl!

---

## SORGAR-GYÐJAN.

Eftir *Kristján Wilster.*

Hástóli glæstum himins frá
hilmir alvaldur goða-ranna
leit niður heimsins leiksvið á
og leiddi sjónum ástand manna.
Til sín þá koma herran hár
harmþrunginn svanna gat að líta;
stóðu í augum trega-tár,
titraði' af ekka brjóstið hvíta.

"Hver ertu, sorgar-mædda mey?"
mildingur himna spurði blíður.
"Hví má þitt hjarta huggast ei—
hví hrygðar-tár af augum líður?"
"Sorgar-gyðju," hún svara vann,
"mig sjótir kalla jarðar-búa.
Ó, mikli guð! mér enginn ann,
en allir baki við mér snúa.

"Herra, þú gerðir hlutverk mitt
harma að vekja sonum manna.

Aldrigi braut eg boðorð þitt;
það bragnar allir mega sanna.
Fórnir mér ekki færir neinn,
þótt fagnandi dýrki guði hina;
hata mig sprund og sérhver sveinn,
svo mér er enginn kostur vina.

"Æ, hví var engin gjöf mér geymd,
fyrst guðs eg máttku hlýði boðum?
Eða hvort hafa allir gleymt,
að ein er eg af himingoðum?
Á eg alein að sitja' og sjá,
er sælir guðir fórnir þiggja,
og harmi þrungin hlusta á
heiftar-orð reiðra moldar-byggja?"

"Huggastu," greiddi herran svar;
"hjarta þitt lát ei sorgir pína,
þó að skinhelgir hræsnarar
helgi þér ekki gáfur sínar.
Öfunda skaltu ekki bönd,
þótt ilman finni' af þeirra hlauti,
né þótt drambþrungins höfðings hönd
hof þeirra prýði gullnu skrauti.

"Eg veit, þér enginn blótfórn bjó;
eg bauð svo fyrr, og svo hlaut vera;
annað þér veitist æðra þó,
er enginn með drambi fram réð bera,
er harmþreytt brjóst á hrygðar-tíð
heitu fram stynur sorgar-kveini

og auðmýkt hjartans angursblíð
andvörpum fórnar þér í leyni.

"Unnustu tárin ástarkær
elskhugans feld á köldu leiði
og grátperlur, sem móðir mær
moldum síns hnigins niðja greiðir.
sérhvert þér helgast sorgar-kvak
og svana deyjandi ástar-rómur,
elskunnar sætast andar-tak,
er þinn grátfagri helgidómur.

"Kunngerir guða kraft um lönd
klerkur af trúar-drambi hrifinn,
sendir þeim fórnir siklings hönd
saklausra manna blóði drifin.
Þeirra ofdramb og hroki hár
hryggir skilfinga goða setra—
en hjartað þér sín helgar tár,
og hjartað það á ekkert betra."

---

## HINN DEYJANDI HERMAÐUR.

Eftir *Johan Ludvig Runeberg.*

Ei lengur sólin sæla skein
á sollinn Hildar-leik,
og heljarsærðra hinstu kvein
þau hættu' og urðu veik,
og koldimm gríma hauður og höf
nú huldi þögul eins og gröf.

Við myrkvan vog á mjúkri strönd
einn maður aldinn lá,
um ennið studdi' hann hægri hönd,
með holsár brjósti á,
en augun lýstu hetju-hug
og horfnra daga kappa-dug.

Ei við hans hlið neinn vinur stóð,
er vissi' hans síðstu orð,
og eigi hné hans bana-blóð
á blíða ættar-storð;
hans bygð stóð Volgu bökkum á,
Nú bjó hann gestur fjöndum hjá.

Hálfbrostnum augum upp hann brá
og ungling særðan leit,
er harla nærri honum lá
og hraustu lífi sleit;
hans auga starði oft á þann,
er æsku-lífið kveðja vann.

Í heiftar-fullri Hildar-þrá
með hraustri kappa-lund
þeir bana-spjótum bárust á
og blóðga vöktu und;
nú hugði ei hinn aldni' á stríð
og unglings brá var friðarblíð.

Og nóttin huldi hæð og dal,
—það heyrðist ára-glam;

og í því máni' úr uppheims-sal
kom undan skýi fram,
hann sá hvar lenti lítið fley,
á land upp ganga sá hann mey.

Sem vofa þögul vals um slóð
hún vendi' og feldi tár,
hún dreyra-strauma djúpa óð
og drengja leit á sár;
en aldurhniginn halur leit
á hennar för um dauðra reit.

Á hina þöglu meyjar-mynd
hans milda auga sá,
er leið um valinn létt sem hind
og lítt við ógnir brá;
hann gruna tók, hví grátið sprund
svo gengi þar um nætur-stund.

Og hægt og þögul hans á fund,
þars hinn nam blunda rótt,
nú gekk hin unga auðar-grund
um unnir dreyra skjótt;
við bleika mánans birtu þá
hið bleika unglings lík hún sá.

Hún kendi skjótt og kallaði' á
hið kæra nafn, en ei
hið særða hjarta svar nam fá;
að sveinsins barmi mey

þá hneig, en fjör var horfið alt
og höndin stirð og brjóstið kalt.

Þá hné af öldungs auga tár
og orð hann mælti hljótt,
sem að eins drottinn heyrði hár
og heljarþögul nótt;
og fram hann gekk eitt fet með ró,
að fótum meyjar hné og dó.

Hvað þýddi augans huliðsmál
og hans hin síðstu orð?
Hvað þýddi tára brennheitt bál,
er blóðga hné á storð?
Seg mér, hvað hans í huga bjó,
er hné hann jarðar til og dó.

Hvort vildi' hann friða hjarta þjáð,
er hóf hann veikan róm?
Hvort bað hann drottin heitt um náð
í hinum mikla dóm?
Hvort grét hann eymdir ýta við,
er ávalt svifta' og sviftast frið?

Fjandmaður hann af fjarri strönd
oss flein á móti bar;
þó taktu klökkur hans í hönd
og hugsa' ei hver hann var;
því hatrið lífs er hefndar-gjöf,
en hefndin aftur snýr við gröf.

## BERNSKUMINNING.

Eftir *Runeberg*.

Minnist eg æ
þeirra yndis-stunda,
er bernsku árroði
brann mér á kinnum;
í hjarta mér þá greru
himinrósir
engu hagléli
enn þá lostnar.

Lék eg þá sæll
í sakleysis draumi,
sem andi morguns
á engja-rósum;
gleði mín var hrein
sem geislar himins,
tár mín sem daggar
dropar léttir.

Eilífum skreyttur
Edens-blóma
hló við mér heimur
í himinsælu,
með mér blær himins
og bekkjar niður
barnleikum lék
við blíða náttúru.

Örskoti fljótara
leiðstu, æsku-vor,
aldrei hjarta mitt
þú oftar vermir;
blómgast árlega
bjarkir fagrar,
en lífs-blóm eitt sinn
og aldrei framar.

Yndi þess er horfið,
og til ónýtis
rætur þess eg vökva
regni tára;
laufin fölnu
leita' að eins grafar;
hnígur stofn í skaut
helkaldrar móður.

Ó, hve óðfluga
áfram líða
stundir starfsemi,
stundir vonar.
En fyrst að lífið
líður svo ótt,
hví þá á leiðinni
linnir þess gleði?

Stari eg á horfnar
stundir æfi,
sem farmaður á strendur
fósturjarðar;

það er bernskunnar
að brosa' og njóta,
en æsku-manns
afls að freista.

Hvað er heims-dýrð öll,
er hygg eg á,
móti leiksviði
ljúfrar æsku?
Hvað er lárviður
lísfrægðar allrar
móti blómsveigum
bernsku-dala?

Gráta skal þó eigi!
Gleði horfna
andi arnfleygur
ei aftur finnur.
En minning blíð
bernsku-daga,
fylg þú mér æ
um æfi-brautir.

Vera má, að einhver
vinar-hendi
létti mér böl,
fyrr en lýkur vegi;
vera má, að aftur
ellin veiti
fölnaðrar æsku
frið og gleði.

Þegar stafstuddur
eg stari lotinn
á fullkomins
friðar-hvílu,
ganga skal eg glaður
að grafar-dyrum,
sem fyrr eg vonglaður
til vöggu gekk.

---

## MY SOUL IS DARK.

Eftir *Byron.*

Láttu nú strengi gígju gjalla,
geigvænu myrkri felst mín önd;
svífa lát ástar-óminn snjalla
að eyrum mér frá þinni hönd;
og búi von í barmi sárum,
blítt hana veki kvakið þitt;
lát hvarminn döggvast kuldum tárum,
svo höfuð þau ei brenni mitt.

Lát strengi lýsa sorgum sárum;
nú sízt er gleði-lag mér kært,
því eg þarf út að ausa tárum,
ellegar brestur hjarta sært—
hjarta, sem nagar harður tregi
og hvíldar finnur engan stað;
þess stund er komin, ef þú eigi
með ástar-rómi lífgar það.

## BANAMEINIÐ.

Eftir *Heine.*

Sólin blíð og himinhrein
hneig að fjalla baki,
þá við saman undum ein
undir bæjarþaki.

Sveif til hreiðurs fuglinn frár
fagur heyrðist kliður,
eldheit hnigu ástar-tár
af augum þínum niður.

Þína ástar-þýðu önd
þungur harmur nísti;
féllu tár á fagra hönd,
er fast að munni' eg þrýsti.

Síðan rætur sorgar-ljár
særir lífs míns rósar;
mig hafa eitrað ástar-tár
ólánssamrar drósar.

---

## HIÐ DEYJANDI BARN.

Eftir *H. C. Andersen.*

Móðir, eg vil halla höfði þreyttu
og höfga værum hvíla mæddar brár;
harmaðu' ei! Þá hinstu ósk mér veittu;
hlýrum mínum á þín brenna tár.

Inni' er kalt og úti stormar hvína;
alt á landi draums er fagurskreytt;
æskufagrir englar fyrir skína
auganu, sem lokast hefir þreytt.

Sérðu, móðir, landið fagurljósa,
ljúft sem brosir augum mínum við?
Heyri' eg svífa' af svæði himinrósa
sætan engilgígju strengja-nið.
Þar hinn blíði lausnari' heimsins lýða,
er lagði blessun yfir börnin smá,
mér á móti breiðir faðminn blíða,
brautum jarðar þegar hverf eg frá.

Minni hönd að þínu hjarta þýðu
þrýstirðu, sem ótt eg bærast finn;
ástar-tár af augum þínum blíðu
ofan falla logavarma kinn.
gleðstu, móðir, heims er þrotinn harmur;
nær hjartað brestur endar sérhvert stríð;
nú það sæfir engillegur armur—
önnur byrjar sælli' og betri tíð.

---

## TIL ÍSLANDS.

Frumkveðið á grísku af *Robert Lowe.*

Heill sé þér, eldþrungna ey,
er ísklædda tinda í skýjum
vefur, af hreggviðrum hrist
og hamrömmum umbrotum Loka.

Yzt þar á útkjálka heims
ægivald harðstjórans flýði
Norðurheims þrúðeflda þjóð
og þjóðveldi alfrjálst réð stofna;
lifði svo laus þar við sorg
und lögum hins heilaga frelsis
og gladdist við ginnhelgan mjöð
guðlegum Mímis af brunni.

---

## ÁSTARGNOÐIN.

Eftir *Th. Moore.*

Um æfinnar ókyrru strauma
áfram við bæði
á veiku, en flughröðu fley
flytjumst án dvalar;
himininn heiður og blíður
hlær okkur móti,
tíðum þótt skjótlega skyggist
skýkólgu-drunga.

Á ströndinni löngum við lítum
litfagra bletti;
ó, hvað við mundum oss æskja
að eyða þar dögum,
en flugárar tímans oss flytja,
vér fáum ei dvalið;
áfram við höldum; ó! áfram
við óðfluga svífum.

Er helkaldar haglskúrir dynja
og hvínandi stormar,
við munum brosandi bíða
blíðari daga
og sárköldu svo móti éli
svalblæjur reisa,
þangað til sólin hin sæla
sendir oss geisla.

Sælunnar sólheiðu stundar
við svo skulum njóta;
hennar býr himneska gleði
á hverfanda hveli;
þrautunum þar skulum gleyma
og þeirra ei minnast,
kvíða hins komanda svæfum
kossa með hljómi.

Svo munum þangað um síðir
svífa við bæði,
er lífs-öldur freyðandi falla
af flughömrum dauða;
það eru fastbundin forlög
hins fagra og myrka,
neðan við geigvænu gljúfrin
í geiminn að hverfa.

Alt eins mun okkur sá tími
unaðarríkur,
ef við þá höldumst í hendur
og hvert annað styðjum;

falslausum faðmlögum bundin
fet það við stígum,
og trygðföst með hugprúðu hjarta
höldum þar niður.

---

## AMALÍU-SÖNGUR.

Eftir *Schiller.*

Hann var fagur, fremstur yngissveina,
friðar-engils svip á enni bar,
augað blítt sem árdags-sólin hreina,
er endurskín í spegilsléttum mar.

Ó, hans faðmlög! hjarta sló mót hjarta,
himinóvit svæfði fjör og mál;
við gleymdum heim; um geima ljóssins bjarta
á geisla-vængjum flaug hin þrungna sál.

Ó, hans kossar, Edens-sælu draumur!
sem elds-log tvö, er saman renna skær,
eins og hörpu inndæll heyrðist glaumur,
sem engilhönd í ljóssins sölum slær.

Andi tengdist anda himinblíður,
eldleg rós á kinnum titra vann,
saman runnu sefar; heimur víður
í Sjafnar-loga okkur kring um brann.

Hann mér hvarf sem himinský í vindi
og hrygðar-tárin ekkert gagna mér;
hann mér hvarf, og alt mitt lífsins yndi
í angurstunu þunga breytir sér.

## MANSÖNGUR.

Eftir *Schiller.*

Langt frá jörð til ljóssins unaðsala
líð eg burt í óráðs-sælu-dvala,
á mig þinn er enniröðull skín;
í uppheims-sælu áfram líð eg straumi,
ásján mína nær í sælu-draumi
endurspegla augun bláu þín.

Vonarblíður Edens-svana-ómur,
uppheims-sólna fagur gígju-hljómur
munarölvuð eyru hrífur mín.
Andans drukknar afl í gleði-straumi,
ástar-söngva nær með sætum glaumi
unun vekur engiltunga þín.

Þér fylgir ástar-engla sveimur blíður,
alt í leiðslu þig umhverfis líður,
svo sem töfrað Orfeifs hörpu af.
Ó, þú sól, sem alla fegurð geymir,
af augum þínum vonarfögrum streymir
eilíft grunnlaust ástar-geisla haf.

Vara þinna vinar-brosið hreina
vakið getur líf í brjóstum steina
og í jöklum æðar látið slá.
Alt er draumur augum fyrir mínum,
í augum þegar fagurbláum þínum
"*Eg elska þig*," þau orð eg lesa má.

## Á ÞÍNUM VÖRUM ERU TÖFRAR.

Snúið af dönsku.

Á þínum vörum eru töfrar,
í augum þínum grunnlaust djúp;
sem engilljóð í eyrum lætur
þín ástar-röddin munargljúp.

Af enni þínu geislar glóa,
sem gríma koldimm hár þitt er;
hvar sem þú fótinn bjarta bærir,
blómálfa sveimur fylgir þér.

Í þínu brosi' er eilíf speki,
ódáins-rósir blika' á kinn,
líðandi heimi lífs er brunnur
hinn ljóma-sveipti barmur þinn.

Þín sál er helgur, syndlaus heimur,
sólfagurt, eilíft vor þar býr,
sem ástarþrunginn á eg stari,
sem elska þig mig biður og knýr.

---

## SKÁLDIÐ Í ÚTLEGÐINNI.

Eftir *Heine*.

Þegar morgun-sólin sæla
sveipar alt með ljósi gljáu,
geng eg fram hjá glugga þínum
gleðja mig þín augun bláu.

Þú með undrun á mig lítur;
auga þitt mig spyr hið bjarta:
"Hvaðan ertu, útlendingur,
og hvað liggur þér á hjarta?"

Eg er skáld á Fróni fæddur,
á Fróni kunnur hverjum manni;
þegar mestu manna' er getið,
mín er einnig getið, svanni.

Til þess, sem mitt hryggir hjarta,
hjörtu' á Fróni allmörg finna;
ef þar er minst á þungar sorgir,
þá er getið harma minna.

# KRISTJÁN JÓNSSON.

(1842-1869)

Eftir BJÖRN B. JÓNSSON.

Til eru tvenskonar tegundir blóma—*ræktuð* blóm og *vilt* blóm. Ræktuðu blómin eru í húsum og blómstur-görðum. Þau eru ræktuð af mönnum, sett niður eftir föstum reglum og standa í ákveðnum röðum. Viltu blómin vaxa úti á víðavangi, ekki eftir föstum reglum, ekki í ákveðnum röðum, heldur eins og *náttúran* býður þeim.

Til eru tvenskonar tegundir fugla—*tamdir* fuglar og *viltir* fuglar. Tömdu fuglarnir halda sig fyrir innan skorður þær, sem mennirnir hafa sett þeim. Þeim er sumum kent að tala orð og syngja lög. En þeir syngja ávalt eins og þeim hefir verið *kent* að syngja. Viltu fuglarnir eru óbundnir við form og reglur. Þeir fljúga svo hátt og svo langt sem þeim þóknast. Þeir hvíla sig á þessum kvistinum í dag, en á öðrum, í hundrað mílna fjarlægð, á morgun. Og þeir syngja, eins og frjálsar verur, það eitt, er þeim býr í brjósti—syngja það, sem náttúru þeirra er samkvæmt.

Til eru tvenskonar tegundir *skálda*—*íþrótta*-skáld og *hugvits*-skáld. Íþrótta-skáldin eru skáld

af viti og lærdómi. Þau hafa *lært* að yrkja. Þau yrkja eftir listarinnar reglum. Hjá þeim er formið alt lögbundið nákvæmlega. Þau kunna að raða hugsunum sínum niður skipulega og hafa þær sálarfræðislega réttar—þau yrkja af því þau *kunna* að yrkja. *Hugvits*-skáldin, aftur á móti, eru skáld af meðfæddri náttúru-gáfu og eðlishvöt. Þau eru stundum lítt "lærð," en þau yrkja af því, að hjartað er fult af skáldskap. Í staðinn fyrir að læra af bókum að þekkja mannlegar tilfinningar—sorg og gleði, hatur og elsku, eymd og sælu, kvíða og von—þreifa þau á öllu þessu í sínum eigin hjörtum. Hjörtu þeirra eru þrungin af eldi, sem brýst út og kveikir bál í hjörtum annarra manna. Þau eru *ósjálfrátt* skáld—geta ekki annað en verið skáld. Það er með þau eins og Lúter: "Hér stend eg; eg get ekki annað. Guð hjálpi mér."

Meðal allra þjóða koma þau við og við fram, þessi ósjálfráðu skáld, eins og spámennirnir í Ísrael forðum. Þannig var það, að fyrir einni öld síðan var unglings piltur einn í héraði einu á Skotlandi, sem gekk allan daginn berfættur á eftir plógnum á akrinum, en gerði þó alt lifið að skáldskap, og samdi ljóð um alla hluti frá "lúsinni" til "lávarðarins." Og "drengurinn frá plógnum," Robert Burns, varð *þjóðskáld* Skota. Þjóðin fann, að hann söng á strengi, sem hún átti sjálf. Þetta voru hennar hugsanir, þótt hún ekki hefði vitað af þeim fyrr, og þetta

voru hennar tilfinningar, þótt hún hefði ekki kent þeirra fyrr. Þjóðin heyrði sinn eginn hjartaslátt.

Og þannig var það, að fyrir einum mannsaldri var smaladrengur einn uppi á Hólsfjöllum á Íslandi, sem gætti sauða og sat yfir ám allan daginn, en kvað þó ósjálfrátt ljóð um alla hluti, um "Dettifoss" og "Lindina," um "Andvarpið" og "Vonina." Og viti menn! þegar vinnumaðurinn kvað uppi á fjöllunum, bergmálaði söngur hans út um dali og sveitir og undir tók hvarvetna í hjörtum manna. Alþýða heyrði sitt eigið hjarta slá, og fanst henni sem raddir þessar kæmi frá sér sjálfri. Og þegar stundir liðu, heyrðu "lærðu" skáldin líka hörpu smaladrengsins á fjöllunum, og sveitarskáldið varð þjóðskáld—þjóðskáldið *Kristján Jónsson.*

Kristján Jónsson er fyrst og fremst skáld fyrir meðskapaða náttúrugáfu. Hann orkti aðdáanlega fögur ljóð löngu áður en hann "lærði" —löngu áður en hann kom í latínu-skólann í Reykjavík. En það eru að þessu leyti ekki margir Kristjánar. Ekki má maður ímynda sér, að hver græninginn, sem setur saman kvæði, sé skáld, af því Kristján Jónsson var skáld áður en hann naut æðri mentunar, ekkert fremur en maður má búast við, að hver maður, sem heggur skóg, verði forseti Bandaríkjanna, af því Lincoln hjó skóg í Illinois á yngri árum sínum og varð seinna forseti. Það eru víst fleiri svo

kölluð skáld meðal íslenzkrar alþýðu en á sér stað hjá alþýðu annarra þjóða. Og einmitt af því, að Kristján Jónsson og Hjálmar í Bólu og Páll Ólafsson gátu verið skáld án æðri mentunar, þá ímynda þessir hagyrðingar sér sjálfir— og stundum aðrir með þeim—að þeir sé líka skáld. En samt verður leirburðurinn leirburður, og það jafnt fyrir það, þótt kvæðin komi á prent og birtist í blöðunum.

Og Kristján Jónsson var, eins og þegar hefir verið tekið fram, *alþýðu* skáld. Hann var alþýðumaður, sonur fátæks, en stórgáfaðs bóndamanns, Jóns Kristjánssonar, hreppstjóra, í Krossdal í Kelduhverfi. Og Kristján er að ýmsu leyti sýnishorn alþýðumanna þar og þá. Hann er *íslenzkur* alþýðumaður. Í kvæðum hans, einkum þeim frá yngri árunum, kemur í ljós vesalings íslenzki alþýðumaðurinn, fátækur og kúgaður, andlega og líkamlega þjáður, stynjandi undir óblíðu náttúrunnar, kúgun yfirvaldanna og öfugum tíðaranda. Hvernig gat svo alþýðuskáldið, túlkur tilfinninga alþýðunnar, orðið annað en það, sem hann var? Þegar vér viljum kynnast vel einhverjum manni og skilja lundarlag hans og einkenni, þá þurfum vér að þekkja æsku hans og uppeldi. Á uppvaxtarárunum myndast lund manns. Og að því er Kristján Jónsson snertir, þá er sérstaklega nauðsynlegt að þekkja æsku hans. Í æsku var á hann sett það brennimark, sem aldrei afmáðist.

Fullorðins-árin hans eru bein afleiðing at uppeldisárum hans. Æfisaga Kristjáns Jónssonar hefir áður verið skráð og er flestum kunnug. En *æsku*saga hans er ekki svo ljós sem skyldi, og um það efni vildi eg bæta við nokkrum upplýsingum í grein þessari. Upplýsingar þær koma frá þeim manninum, sem langbezt allra manna þekti hann í æsku—einka-bróður hans, Birni Jónssyni (d. 1902, í Argyle-bygð í Manitoba). Skömmu áður en Björn dó ritaði hann upp, eftir ósk minni, endurminningar þær, sem hér fara á eftir:

Kristján var óvenjulega bráðþroska í æsku, bæði andlega og líkamlega. Hann gekk og talaði ársgamall. Fimm eða sex vetra var hann all-vel læs og kunni þá þegar mikið af sögum, vísum og versum, sem hann oft þuldi upp úr sér, og bar þá ærið hratt á. Átta ára var hann jafnstór og sterkur og margir tíu til tólf ára gamlir drengir, og andlegur þroski hans var tiltölulega engu minni. Þegar Kristján var fimm ára, en eg á áttunda ári, dó faðir okkar. Tveimur árum síðar giftist móðir okkar aftur, Helga Sigurðssyni, og kom þá all-mikil breyting á lífskjör okkar. Árið 1850 flutti stjúpi okkar frá Auðbjargarstöðum, þar sem við höfðum átt heima í fjögur ár, að Ási í sömu sveit (Kelduhverfi). Þar bjó hann í fjögur ár. Öll þau ár vorum við bræður saman hjá stjúpa okkar og móður og áttum við all-harðan kost að búa. Árið 1854 brugðu þau hjón búi og skildu. Fór þá Kristján, tólf ára gamall, að Ærlækjarseli.

Þegar móðir okkar giftist aftur og við komum til stjúpa okkar, vorum við báðir all-vel læsir, en eftir það var okkur ekkert kent. Móðir okkar fékk þá engu ráðið og átti sjálf við ill kjör og ófrelsi að búa. Lítið var um

bækur eða bókalestur á heimilinu, en við bræður fengum okkur lánaðar allar þær sögur og rímur, sem við gátum, og lásum þær og lærðum með mesta áhuga, oft í fjárhúsum eða hjá fé. Engar nýrri bækur sáum við um þær mundir, en mjög höfðu fornsögurnar mikil áhrif á okkur. Sjálfir bjuggum við oft til sögur og kváðum rímur út af þeim, en aldrei létum við nokkurn heyra það rugl. Þegar við sátum saman og vorum að myndast við að yrkja, gerðum við ávalt sína vísuna hvor. Frá þessum tíma er "Veiðimaðurinn," "Heimkoman" og nokkrar vísur, sem eru í kvæðabók Kristjáns. En auðvitað lagaði hann það og jók síðar. Þó eru nokkur erindi í þessum kvæðum alveg óbreytt frá því þau voru í fyrstu. Með mínum vilja var það auðvitað, að hann tók að sér eins það, sem var eftir mig í þeim kvæðum.

Í sambandi við það, að eg nú nefndi kvæðið "Veiðimaðurinn," skal eg skýra frá, hvernig það varð til. Síðasta veturinn, er við vorum saman í Ási, var eg sendur að Fjöllum, sem er vestasti bær í Kelduhverfi. Þar bjó þá Friðrik Ólafsson, sem Kristján orkti erfiljóð eftir. Hann var mesti ágætismaður og vel að sér um marga hluti. Honum þótti mjög fyrir því, hve lítið okkur hefði verið kent. Kveldið, er eg var þar, talaði hann lengi við mig og sagði mér frá mörgu. Hlýddi eg á hann með mestu undrun. Hann hafði þá ný-lesið ferðasögu manns nokkurs um Ameríku, og sagði hann mér kafla úr sögu þeirri um veiðimannalífið. Þegar eg kom heim, sagði eg Kristjáni alt, sem eg hafði heyrt í ferðinni, og þá myndaðist "Veiðimaðurinn" eins og það kvæði var í fyrstu.

Ekki man eg með vissu, hve ungur Kristján byrjaði að yrkja, en farinn var hann að bera það við þegar á Auðbjargarstöðum, en hann var átta ára þegar hann fór þaðan. Það var einkennilegt við fyrstu vísur hans, að þær voru svo að kalla ávalt með réttum ljóðstöfum

og hendingum, þó að þær að sumu leyti væri rugl. Sýnishorn af vísum hans frá þeim árum er vísa sú, er hann orkti út af vígi Gunnars á Hlíðarenda. Hún er svona:

"Þá dauðans bað var dottið á,
drengskaps náðu fær
enginn maður annað sá
en hann glaður væri."

Þótt gallar séu á vísunni, er hún furðanlega rétt kveðin af sjö eða átta vetra gömlum dreng.

Það var oft vani Kristjáns, þá hann var einn úti, að hann gekk eða hljóp fram og aftur um sama blettinn og talaði upphátt við sjálfan sig. Var hann þá að semja sögur eða vísur, og vissi þá ekkert, hvað fram fór í kring um hann. Svitinn lak ofan af honum; stundum nam hann staðar eitt augnablik, horfði beint fram undan sér og þaut svo á stað aftur. Fyrir þetta og margt annað var hlegið mikið að honum og álitu sumir, að hann yrði fábjáni. Eftir að við komum að Ási varð nokkur breyting á þessu, því þá var farið að reka hann áfram til vinnu. Hann var duglegur við suma vinnu, en gerði mörg axarsköft, einkum við fjárgeymslu. Það kom oft fyrir, að hann gekk rétt hjá fénu, en leit hvorki til hægri né vinstri, sá enga skepnu og kom heim svobúinn. Ekki kom það sjaldan fyrir, er hann var sendur í erindi á aðra bæi, að hann gleymdi erindinu, en ef hann mundi það, lét hann skilaboðin dynja óðara, og hljóp á stað án þess að bíða eftir svari, svo að kalla þurfti á eftir honum eða elta hann.

Í æsku var Kristján bráðlyndur, og snemma óvæginn í orðum þá hann reiddist, en jafn-fljótt varð hann afreiður aftur. Þá var hann og snemma mislyndur—annaðhvort þögull og þungbúinn, eða þá ofsa-kátur. Margir urðu til að atyrða hann, storka honum og velja honum háðugleg heiti. Svaraði Kristján þá all-biturlega

og orkti ófagrar vísur um óvini sína, en sjaldan þorði hann að láta aðra en mig heyra þær. Hann elskaði móður sína, en hataði stjúpa sinn, því hann var honum vondur. Og mér er það vel ljóst, að hin illu kjör Kristjáns þessi ár höfðu áhrif á hann alla æfi. Hin raunalega lífs-skoðun hans hefir að miklu leyti myndast út af hinni illu aðbúð, er hann átti þessi ár. Okkur bræðrum þótti ávalt vænt hvorum um annan. Oft reiddist hann fyrir mína hönd, er mér var misboðið, og sást þá ekki fyrir í orði, og hlaut svo ilt fyrir sjálfur.

Kristján leit snemma nokkuð stórt á sig. Hann fann meiri kraft í sjálfum sér en mörgum, sem fyrirlitu hann. En lífskjör hans gerðu hann vonlausan um að geta komist nokkuð áfram eða geta notið þeirra hæfileika, er hann fann hjá sér. Mun þetta hafa verið orsök þess þunglyndis, sem þjáði hann síðar, og bera þess vott mörg kvæði hans.

Þegar Kristján var vinnumaður á Fjöllum, var þar hin mesta drykkju-öld og margir drykkjumenn, svo aldrei hefir ofdrykkja líklega verið almennari á Norðurlandi. Varla var sá maður með mönnum teljandi, sem ekki var drykkjumaður. Kristján lærði þar að drekka eins og aðrir, en ákaflyndi hans leiddi til þess, að hann í því, sem öðru, gekk flestum lengra, þegar fram í sótti.

Seinasta árið, sem Kristján lifði, heimsótti eg hann á Vopnafirði. Sá eg þá glögt, að hann var farinn að heilsu og mundi ekki verða langlífur, en við svo bráðum umskiftum bjóst eg ekki. Hann fylgdi mér fram sveitina, þegar eg fór heimleiðis aftur. Eg hvatti hann til að láta af ofdrykkju, brjótast áfram rösklega og bera mótlætið með karlmensku. Þá svaraði hann með þessari vísu:

"Vaka lífsins verði þér
svo vær og ljúf og full af ró,
eins og bana-blundur mér
blíðri niðri' í grafar-þró."

Honum var þá víst full-ljóst, að hann átti skamt eftir ólifað, enda var hann þá að sumu leyti breyttur að hugarfari. Trúarskoðanir hans höfðu náð nokkurri festu. Nýlega hafði hann þá t. d. orkt langt kvæði, sem hann kallaði "Andláts-orð Krists," og sá eg nokkuð af fyrsta uppkastinu, en kvæðið fullgert hafði hann sent séra Gunnari Gunnarssyni. Séra Gunnar sendi Kristjáni kvæðið aftur, en það kom ekki austur fyrr en Kristján var dáinn, og glataðist því kvæðið. Harmaði séra Gunnar það mikið, enda var það hinn mesti skaði, því það var yndislega fagurt, og lýsti hugarfari Kristjáns eins og það þá var, enda er ekkert til eftir hann líkt því.

* * *

Af þessari stuttu lýsingu sjáum vér Kristján Jónsson, íslenzka þjóðskáldið, í æsku. Hann er stór og sterkur á líkama og sál, stórlyndur, stórgáfaður og tilfinningaríkur frá fyrstu æsku. Svona gerður kemur hann í heiminn—fæddur til að vera skáld. Svo tekur heimurinn við honum, og heimurinn býður honum flest það ilt, sem hann á til: sviftir hann föðurnum, elur hann upp í fátækt, kemur honum á vald eigingjarnra og heimskra manna. Og hann, sem fæddur var til að yrkja ljóð, er látinn hóa við fé; hann, sem átti sálu fulla af söng, er látinn stinga tað í fjárhúsum. Flestir menn eru honum vondir, þegar hann er barn og þarfnast blíðu. Fáránlegt fífl kalla heimskingjarnir hann, af því hann getur ekki leynt spádóms-gáfu sinni. Svo þroskast hann að aldri og kemst meir á manna vegu. Hvað lærir hann þá af þeim? Að drekka brennivín! Honum fer sem mörgum öðrum

mannanna sonum: blómknappur hjartans breiðir blöð sín móti ástinni, en hjartans viðkvæmasta blómstur er þá troðið niður í sorpið og hrækt á það.

Þetta er unglingurinn Kristján. Þetta er æskumaðurinn, sem verða á skáld þjóðar sinnar um margar aldir. Nú förum vér að skilja ljóðin hans—skilja, hvað hann sjálfur var, og hví hann var það, sem hann var.

Hér skal sama sem ekkert sagt um fullorðins ár Kristjáns, eða þau árin, sem hann var við nám í Reykjavík. En vísað skal í því sambandi til hinnar einkar ljósu ritgerðar eftir Jón Ólafsson, sem prentuð er framan við Reykjavíkur-útgáfur Kristjáns kvæða.

Það eitt út af fyrir sig, að Kristján braust gegn um margar torfærur út á skólaveginn, sýnir hjá honum meiri vilja-kraft en vér búumst við að finna hjá manni líkum honum. Ef til vill hefir þessi eiginleiki hans—viljakrafturinn—ekki verið nógsamlega tekinn til greina.

Sagt hafa mér það skóla-bræður hans í latínuskólanum, að Kristján hafi þar verið allra manna vinsælastur, og víst er um það, að þeir, sem honum voru handgengnir, geta aldrei gleymt honum. Hann virðist vera þeim öllum í fersku minni, svo sem væru þeir nýgengnir frá honum.

Aldrei komst Kristján gegn um lærða skólann í Reykjavík og enga stöðu hafði hann víst veru-

lega hugsað sér í lífinu. Fullur gremju og sorgar sagði hann sig úr skóla eftir fjögra vetra nám. Hann var barnakennari á Vopnafirði, þegar hann, að eins tuttugu og sjö ára gamall, kvaddi það líf, sem honum hafði verið "blóðrás og logandi und." Oft hafði hann verið einn í lífinu, og einn var hann í dauðanum. Um "Andvarpið" hefir hann orkt eitt hið fegursta kvæði sitt. En enginn maður heyrði síðasta andvarpið hans. Hann hafði lengi þráð að deyja. Sjálfur komst hann svo að orði:

**Þegar lífsins löngun hverfur,**
**lífið er eðli sínu fjær.**

Lífið hans var orðið "eðli sínu fjær" og hlaut því að enda. Í kirkju-garðinum að Hofi fékk hann "Gröfina," sem var—

**Hið eina hæli hans**
**og himins náðargjöf.**

